ku, Hañs Almætte og þiñ Vanmætt, Og mun brædlega Felmtur yfer þig koma, Ecke sijdur eñ þa Petur, Og þitt Hiarta smellta i þier, So sem añad Vax, af Tilfiñingu Guds Reide yfer Syndunum og Helvijtis Kvala, Sem þær hafa uñed til, Og nær þu þañeg staddur ert millum Vonar og Otta, Pa muntu heyra med Petre, af Guds Alfu; Ottast Ecke, Jæ, Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. O! vor Gud, Nær hin kallda og bitra Daudans Stund oss ad Hendum ber, og Samvitskañ tekur ad æklaga oss, Miñing Syndaña ofbijdur oss, Diøfulleñ hreller oss, med þeirra Miñingu, Og giører hvad mest wr þeim, Eñ lijted wr þijns Sonar Verdskulldan,
Sem þo er øllu meire, Pa lát þiñ H. Anda mæla þesse Fogru Ord i Hiarta voru,
og bera vorum Anda Vitnisburd þar uñ, ad vier sieum Guds Børn. Bæn
heyr þad Himneske Fader fyrer JEsu Blessada Forþienustu, Amen.

# Siøtta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 5. Cap.

A Pañ Tijma. JEsus sagde til siña Læresveina: Eg segie ydur, Nema so sie, Ad ydvart Riettlæte yfergnæfe meir eñ þad hiña Skriftlærdu og Phariseæaña, Pa munud þier eige iñgæanga i Himnarijke. Pier hafed heyrt hvad sagt er til þeirra Gømlu. Ecke skalltu Mañ vega. Eñ hvør hañ vegur Mañ, sa verdur Dooms sekur. Eñ eg segie ydur þad, Hvør hañ reidest Broodur sijnum, sa verdur Dooms sekur. Eñ hvør sem ad segier til Broodur sijns, Raka, hañ verdur Ræads sekur. Eñ hvør sem segier, þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Par fyrer, nær ed þu Offrar þijna Gæafu til Altaris, og þier kiemur þar til Hugar, þad þiñ Brooder hafe nockud æ moote þier, þa læattu þar þijna Gæafu fyrer Altarenu, og far ædur ad sætta þig vid Broodur þiñ, og kom þa ad Offra þijna Gæafu. Vertu snarlega Samþyckur þijnum Mootstødu-Mañe, æ medañ þu ert eñ æ Veige med hønum, So ad eige selie þig þiñ Mootstødu-Madur Doomaranum, Doomareñ selie þig Pienaranum, og verder so i Dyblissu kastadur. Sañlega segie eg þier: Ad eige muntu þadañ wt fara, þæangad til þu hefur borgad hiñ Sijdasta Pening.

## Exordium.

PIer Villest, þar þier vited ecke Ritningarnar, Sagde DRotteñ vid Saducæos, Matth. 22. Med vidlijku Moote ævarpade hañ Pharisæos, Marc. 7. Pier Onijted Guds Bodord, Svo ad þier hallded Setninga ydar, Og þad giører hañ Satt, Bæde i greindum Capitula Marci, og svo hinum 23. Matthæi.

Pad er hveriu Orde ſaña ra, ſem Paall ſkrifar, Ad Holldlegur Madur ſkynie ecke hvad Guds Anda er, Og þad ſie honum Heimſka, 1. Cor. 2. Pad er liooſt af Dæme hiña Skriftlærdu, Er kolludu ſig ad hafa Lykel Vitſkuñar, Eñ wtlogdu þo Ritninguna epter ſijnum eigeñ Pootta. Pad auglijſer hiñ Stoore Biſkup med þa Vellærdu Twnguna i þeſſa H. Dags Evangelio, Par hañ ſialfur wtleggur Logmaaled laungtum odruvijs eñ Gydingaña Vitringar hielldu: Hver hañs Utſkijring ad meſtu Leite er vidtekeñ af fleſtum þeim ed Chriſtner kallaſt, Po er þar i ein Grein, Sem ecke kiemur ollum ſamañ um, Pad er þeſſe: VERtu SNARlega SAMþyckur PJJNum MOOTſtodu MAñe, A MEDañ Pu Ert Eñ A VEJge Med HONum, Svo Ad Eige Selie Pig Piñ MOOTſtodu MAdur DOOMaranum, Og DOOMareñ SELie Pig PJENaranum, Og VErder Pu Svo J DYbliſſu KAſtadur. Ut af þeſſum Ordum DRotteñs hafa Einþycker og Skynhelger Meñ þad ſpuñed, ad ei leyfeſt Chriſtnum Moñum ad eigaſt Log vid fyrer ſijnu Yfervallde, Og þvi verr, ad i Lande voru eru þeir, Er leggia þad wt a hiñ verſta Veg, Ef nockur er Vandlætingaſamur i þvi, ad ſækia Guds og Konungſins Riett, Ad forſvara Virdingu ſiina og Fiaar-Hlute fyrer Aſælne vondra Maña, Ad ſtyrkia Maalefne Eckiuñar, og hiñs Fodurlauſa, Og kalla, ad þad kome ecke einum vid, Og jafnvel þoott ad Logræningureñ ſie honum Vandabundeñ, Og nefna ſlijkt Orooa og Fridar Spiller. Eñ eg mun med faam Ordum ſijna, ad ei ſie þad Lauſnarans Meining, ad baña Chriſtnum Moñum ad ſækia Riett ſiñ: Og þar hiaa, ad vor Riettargaangur eige ad vera aan alls Haturs og Reide. Pu Riettlaate Fridarens Gud, Gief oſs Naad þijns Anda þar til, Ad þetta Eyrende vel Luckaſt meige, Fyrer JEſum Chriſtum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HOtt ad ecke være adrar Rokſemder til þeſs, ad Lauſnareñ ei tale hier um Veralldlegañ Riett, Helldur um þad Riettlæte, ſem fyrer Gude gyllder, Pa er ſw noog, ad hñ ſegier i Ondverdu Gudſpiallenu: Nema Ad Ydar Riettlæte Yfergnæfe Framar Eñ Hiña Skriftlærdu Og Phariſæaña, Pa Kuñed Pier Ecke Jñ Ad Gaanga J Guds Rijke. Vitañlegt er þad af Gudſpialls-Sogunum, Ad ecke hofduſt þeſſer Skynhelgu Meñ þaa Hlute ad, ſem Veralldar-Riettur kyñe ad ſella þa fyrer, Eñ fyrer þvi, ad Guds Doomar eru ecke eins og Mañaña Doomar, Peir dæma epter Sognum og Vitnum, Eñ hañ ecke epter þvi ſem hañs Auga ſier, edur hañs Eyra heyrer, Helldur rañſakar hañ Hiortuñ og Nyruñ, Pſ. 7. Fyrer þvi, Segie eg, tekur Lauſnareñ til ad wtſkijra hid Fimta Bodord fyrſt, Og ſijner, ad ecke einaſta Mañdraap edur wtvortis Miſþyrmingar ſieu fyrer Gude Saknæmar, Helldur og Reideñ i Hiartanu, Og Ovirdingar Ord þau, er framkoma af Muñenum. Ef Meñ nu þetta fyrer ſatt hallda, Sem eg hygg ad aller giora mune, ſem þeſſa Ritningu vel rañſaka; Hver vill þa ſegia, ad Frelſareñ meine i þeſſum Capitula fyrr edur ſijdar, Veralldlegañ Riettar-Gaang? Ad þeſſu lijtur þad, Er ſydar ſtendur i Gudſpiallenu: Nær Pu Offrar Pijna Gaafu Fyrer Altarenu,

Tarenu, Og Pier Kiemur Þar Til Hugar, Þad Þiñ BRooder Hafe Nockud A Moo-te Þier, Þa Lattu Þar Þijna Gaafu Fyrer ALtarenu, Og Far Adur Ad Sætta Þig Vid BRoodur Þiñ, Og Kom Þa Ad Offra Þijna Gaafu. Segied mier: Hver aa ad þyggia Offred, Gud edur Syßlumaduren? Hvada Doomare mun þa meintur i þessum Ordum: Ad Ecke Ofurselie Hañ Þig DOOmaranum? Eg meina Gud, Þvi aa Myskunseme hefur hañ Þocknan, og ecke aa Offre, Hos. 6. Eñ Veralldar Hosd-ingiar, Þvi verr, þeir hafa margur-hver Þocknan aa Offre, eñ ecke aa Myskun, Nær þe-ir taka Fe til ad Riettlæta hiñ Rangláta, eñ fordæma hiñ Saklausa aan allrar Vægd-ar og Myskunar, Og svo sem þad DRottne ecke þocknadest Offur hiña Heilnsku. Eccl. 5. Odruvijse eñ svo hañ segier, Esa. 66. Ad hver hañ slaatrar Naute, þad er sem hñ slæe Mañ i Hel; Hver hañ loogar Eaud, Þad er sem hañ Afhøfdade eiñ Hund: Hver hañ færer Foorn, so sem Offrade hañ Svijns-Bloode, Sa ed Reykelse breñer, so sem hañ giæfe þad Skurgode, So vill og Frelsareñ segia, Ad oll Guds Þioonusta þess, sem er missaattur vid siñ Naunga, Þañ er hañ hefur afgiort vid, Hun sie Andstygd fyrer Gude, Ef hañ maa añars Saattum naa, Og þvi aalyktar hañ med þessare Grein: Vert Snarlega Samþyckur Þijnum MOotstodu-Mañe, A Medañ Þu Ert Eñ A VEige Med Hon-um, Svo Ad Eige Selie Þig Þiñ MOOtstodu-Madur DOOmaranum, etc. Ad Doomareñ sie Gud, Allsheriar Konungur, Þar er eingeñ Efe aa, Hañ eirn aa Valld aa ad kasta þeim hañ Fordæmer i Þad Faangelsed, Hvadañ ecke er Endurlausn, Sem er Helvijte, Og ad þad sie hier meint, vottar Epterlijkingeñ um hiñ vonda Þioon, Er ritud stendur, Matth. 18. Hañ aa og alleina Himnarijkis Valld. Fyrer hvers Riettlæte vier iñgaungum i Guds Rijke, Er alkuñugt, Ecke Phariseaña, Ecke vort eiged, edur Heilagra Maña, helldur hañs, Sem er Jehova vort Riettlæte, Christus, Eñ hañs Riettlæte maa eingeñ naa fyrer utañ þad, ad hañ sie vid siñ Broodur saattur i sijnu Hiar-ta, ad miñsta Koste, Og vilie ofgiort hafa þad afgiort var. Nu er eingeñ Heilvita Mad-ur sa, Ad ef hañ hefur misgiort vid nockurn, ad hañ ecke helldur leite Saatta til hañs, helldur eñ ad mæta fyrer Doomaranum, Hver ed auk Þegnsens Riettar, feller aa hañ Konungsins Sok, Sierdeilis þar Konungarner hafa epter laated slijkar Saatter, Nær Maalum er svo haattad, Ad ecke snerter Guds Æru, nie Tign þeirra. Nu hyga eg sw sie Meining DRottens i þessare Grein, þad sem Framsijne þyker i Veralldlegum Maalum, Þvi skyllde þad ei þykia i Efne Saaluhiaalpar vorar? Fraa Veralldlegum Doome maa komast aa einhvern Haatt; Einhver kañ ad gaanga i Borgun fyrer mig, Mier kañ Ars-ur til ad falla, svo eg giete loked Skulld mijna; Viner eg Naaungar gieta Fridstillt miñ Mootstodu-Mañ, Eñ fraa Guds Doome eingañ veigeñ, Nema eg verde saattur vid miñ Mootstodu-Mañ, aa medañ eg er eñ þa aa Veige med honum, Þad er, aa medañ eg life, adur eñ eg kiem fyrer hiñ straanga Allsheriar Doom, og verd i Myrkvastofu kastadur, Hvadañ eg mun ecke wifara, laangad til eg hefe borgad hiñ sydarsta Pening; Þad er alldrei, Þvi vor Helvijte er eingeñ Endurlausn. Þar fyrer er einsætt ad sættast vit Naa-

ungañ medañ Tijmeñ er, Sierdeilis þar eg veit ecke hvad miked er epter Begarens, Gud rædur mijnum sijdarsta Nætur-Stad, og ecke siaalfur eg; Og hier af hygg eg þad audsært, ad ei tale Frelsareñ i þessum Stad um̃ Veralldlegañ Riett. Veit eg ad DRotteñ seger i þessum sama Capitula. Ef nockur vill vid þig Løg þreyta, og þijna Yferhøfn af þier taka, Laat honum og þiñ Kyrtel epter. Eg vil nu ei faa mier þad til Orda, ad marger Lærder Meñ leggia þetta svo wt. Vilie nockur Kieppa vid þig um̃ Yferhøfn þijna. Pad er, taka hana af þier med Ofbellde; Eg vil laata hitt standa, Samt hefur þo DRotteñ ecke i þessum Ordum Laga-Rietteñ fyrerboded, Pad var ecke hañs ad bañna Moñum Løg og Riett, Sem ad er Høfuidur Riettar og Laga, Hvers ad er Doomureñ, Hver og er medal Doomarañna i Doomunum, Ad Vitne Josaphats Konungs, 2. Chron. 19. Hefdur þeirra sem neita Moñum riettra Laga, Tradka Maalum Mañna med Flækium og Rangsleitne, Spilla Løglegum Vitnum og Stefnum ad Raunarlausu, Hveria DRotteñ vill sijdañ Dæma.

Eñ eg vil aptur taka til hiñs Fyrra Maals. Eingum bañar DRotteñ i þessare Grein ad beidast Riettar sijns: Pad er alkuñugt, ad Frelsareñ talar i Ordskvidum og Epterlijkingum þraalega i Kieñingum sijnum: Hañ samlijker Christneña Vijn-Garde, Akre, Brwdkaupe; Po er Christneñ hverke Vijn-Gardur, Akur nie Brwdkaup. Hañ kallar Herodem Ref, Munde hañ þar fyrer Refur vera? Paa Johañem og Jacobum Prumu-Syne, Mundy þeir þa ecke vera Zebedæi Syner? Hañ segier ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur eñ Rijkum Mañe iñ i Himna-Rijke, Matth. 19. Nu er þad Omøgulegt; Hvar munu þa Abraham, Isaac og Jacob vera? I þessum sama Capitula Matthæi segier hañ: Ef þijn Hond edur Footur hneixlar þig, Pa snijd þau af, og snara þeim fraa þier: Mun hañ þa villia ad Meñ skule meida sig edur vana eins og Baals-Prestar? Og ecke miklu helldur, ad þeir skule Krossfesta sitt Holld, og deyda sijna Jardnesku Limu, Svo sem Paulus ad Orde kiemst, Col. 3. Hañ segier og i sama Capitula: Ef nockur slær þig aa þijna Hægre Kyñ, þa snw ad honum hiñe Añare; Eñ ef hañ slær aa hina Vinstre fyrst, Pa hefur þu ecke adra vinstre Kyñ ad biooda, segier Augustinus, Og Lucas gietur hverke um̃ hægre nie vinstre Kyñ, Pvi meiga Meñ ecke alltijd haanga i Ordum Ritningareñar, Helldur leita ad Meininguñe, Hver ad i þessum Ordum er eingeñ oñur eñ svo, Ad Meñ ei skulu hefna sialfer sijn, Helldur lijda Orietteñ med Poleñmæde, og Haturslaust, Pad vil eg satt giora med Frelsarans eigeñ Dæme, Hver þegar hañ var Kyñ-Hest sleigeñ, Joh. 18. Pa baud hañ ecke hina Adra Kyñ, Helldur aatalde med Hoogværd þañ er hañ sloo; Ei helldur St. Paall, Nær Presta-Høfdingeñ baud ad slaa hañ fyrer Doome, Helldur beittti hañ Løgum fyrer sig, og sagde: Gud straffe þig þu forfaagade Veggur, Pu situr og dæmer mig epter Løgunum, Og bijdur ad slaa mig aa moote Løgmaalenu, Act. 23. Sama vil eg nu segia um̃ þad, Ad laata þeim siñ Kyrtil epter, er vill þraatta vid nockurn um̃ hañs Yferhøfn, Peirra Orda er eingeñ Meining oñur eñ svo, ad miñe Hyggiu, Ad nær

Madur-

Madur lijdur nockurn Oriett, skule hañ ecke hefna sijn sialfur; Helldur skule vera svo Skape fareñ, ad hañ sie bweñ til ad þola aññ stærre, Reide og Haturslaust, ef hañ nær ecke Riette hiaa Valldstioorneñe, Þviad af Sialfs-Hefndeñe kiemur Tijdum stærre Olucka. Ellldureñ verdur ecke med Ellde slocktur, helldur med Vatne, Svo er þad eingeñ Lækning Oriettarens, ad giallda Illu Illt, helldur ad leita Valldstiettareñar, Hverja Gud hefur sett hinum Froomu til Forsvars, Eñ Rangláatum til Hegningar, Eñ þo Reidelaust, Þvi Madur aa ad snwa Vanganum i Hiartanu, og ecke aa Hofdenu: Fyrer þvi bañar Frelsareñ i þessare Grein; Ecke Loglegañ Riettargang, helldur eñ Paulus þoott hañ segie, 1. Cor. 6. Vogar nockur af ydur, Sa ed aa Sok vid einhvern, ad eiga Doom under Ranglaatum, og ecke under Heilogum, Ad soñu er Brestur hiaa ydur, ad þier hafed Dooma medal ydar, Þvi lijded þier ecke helldur Orietteñ, Þvi take þier ei helldur Skada? Ecke bañar Paulus hier Riettar-Gangeñ, helldur ad eiga Sok fyrer Ranglaatum, (svo kallar hañ Heidingia, Eñ Heilaga nefner hañ hier Christna Meñ, Eins og vijdar) Svo vill hañ þa ecke allañ Riettar-Gang bañad hafa, Helldur ad eiga Maal fyrer Heidingium, Hvar fyrer? Svo ad eingum giæfu þeir neina Hneixlan, ad Pioonustugiordeñ ei lostud yrde, 2. Cor. 6. Og þeirra Hoogværd kuñug ollum Moñum Phil. 4. Eñ Vitne til þess, ad hañ ecke villde hafa Riettar-Gangeñ afmadañ, Er þad, ad hañ ei bañar, ad eigast Log vid fyrer Christnum, Og sijnist laata þad epter, ef þid þarf, Þar hañ segier: Er eingeñ saa aa medal ydar sem Vited hefur, Saa ed kuñe ad dæma millum Brædra siña: Og fyrer þvi, Ad Christner hofdu þa eckert Valld til ad dæma Opeñberlega um Veralldar-Maal, Þa sijnest, Ad hañ vilie ad þeir nefne Meñ af sialfum sier, til ad dæma Maal sijn, Helldur eñ ad bera þau under Vantrwada, Edur þola Orietteñ ella, helldur eñ ad giora Prætur sijnar Augliosar þeim, Ehotudu Christeñdoomeñ, Og logdu þeim allt til Lijta, Er þa Trw og Pioonustu teked hofdu, Og svo sem Frelsareñ segier hier i Gudspiallenu: Nema Ydar Riettlæte Yfergnæfe Meir Eñ Hiña Skriptlærdu Og Phariseaña, Þa Kuñed Þier Ecke Iñ Ad Ganga I Guds Rijke. Svo vill og Paall, ad hiner Christnu skijna skule svo sem Lioos aa mille Rangsnweñar Heidingiaña Kynsloodar. Þesse same Guds Madur segier i odrum Stad: Laated ei sigrast af hinu Illa, Helldur yfervinned hid Illa med Goodu, Rom. 12. Eñ hver vogar ad kalla Skipan hiñs Almattuga vonda? Edur er Valldstioorneñ ecke af Gude sett? Er hun nockud svo sem añad Bijlæte iñsett i Christs Kyrkiu, til Prijdes allteina? Langt er fraa þvi, Helldur til ad skipa Riettindum Maña, Fyrer þvi kalla eg hañ sigra hid Vonda med Goodu, sem nær Riette sijnum fyrer Loglegum Doome, Eñ þoler aan Haturs og Moglunar, Þoott af þvi bere. DRotteñ segier i Logmaalenu, Exod. 21. Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ, Þar fyrer hefur hañ þo ecke leift þeim er Augad miste, ad stijnga wt Augad aa honum er stack, Ecke helldur hefur hañ teked Sverded af Doomaranum, Þoott hañ bañe þad Þegnenum. Eckert nijtt Logmaal hefur Christur sett i þessum Greinum, Þvi Sialfs-Hefndeñ er boñud i Logmaalenu, Saa sem sagde

Doomaranum, Devt. 19. Þitt Auga skal ecke þyrma honum, Lijf fyrer Lijf, Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ, Hond fyrer Hond, Foot fyrer Foot: Hañ hefur og sagt hveriuin einum þar fyrer utañ, Lev. 19. Þu skallt ecke sækia epter Hefndeñe, Og ecke vera Miñugur Oriettarens. Hañ ed segier i greindum Capitula Devt. Uñ hiñ falska Vott: Þier skulud aldeilis giora honum so sem hañ leitadest vid ad giora sijnum Brood ur: Hiñ same hefur talad fyrer Muñ Salomonis, Prov. 20. Þesse Ord, um̃ alla þa sem ecke hafa Guds Um̃bod i Doomara-Sæte: Þu skallt ecke segia; Eg skal Endurgiallda Illt, Bijd epter DRottne, hañ mun frelsa þig. Þessu er Paall samþyckur er hañ segier, Rom. 12. Þier eiged ecke ad hefna siaalfer ydar, Þvi skrifad er; Mijn er Hefndeñ, Eg vil Endurgiallda: Eñ þegar Valldstietteñ hegner vondra Verka aa þeim sem giort hefur aa Aññars Hlut, Þa frelsar Gud hiñ Saklausa, Þvi hun er hañs Þienare til Hegningar, Þeim er Illt adhafast, Rom. 13. Hvervetna þar sem hiñ stoore Allsherjar Doomare hefur Valldstioorneñe Rietteñ i Hendur feinged, Þar hefur hañ med þad sama leift sierhverium, sem vanhalldeñ er, ad sækia Riett siñ fyrer heñe, Þvi hun ber ecke Sverded forgiefens, segier Paulus: Og Petur bijdur ad Meñ sieu undergiefner Stioornendunum, svo sem þeim af Konungenum eru sender, til Straffs hinum Glæpafullu, Eñ til Lofs hinum sem Gott adhafast, 1. Pet. 2. Mun nu ecke þessa vidþurfa, Christner Meñ? Edur er Verollldeñ svo Einlit, ad ecke siñest i heñe bæde Svart og Hvijtt? Svo heilog, ad ei siñest bæde Vonder og Gooder? Þvi er einsætt fyrer þa sem Raangindeñ þola, ad leita Forsvars hiaa Valldstietteñe; Edur munde ecke Paulus leita Lids i Logunum, Þegar Lysias villde hafa refst honum, Act. 22. Munde hañ ecke skioota sier under Keysarans Doom, Þegar hañ Ottadest Ofbellde Gydinga; Eg þore framar ad tala, Þad er ecke Gude þægt, Og gagnar ecke til hañs Dijrdar: Ad Meñ alltijd giefe Riett siñ epter, Þvi þad giorer Ohlutvanda Meñ optast þess verre og aasælnare, So ad þad maa sijnast, ad saa efle Illsku þeirra, sem lætur Hlut siñ fyrer þeim, ef hañ maa naa honum med Logum og Riette: Saa sem vill taka fraa mier Æru mijna og gott Mañord, Mun þad Gude aa moote, ad eg forsvare mig Loglega fyrer A-austre hañs? Hañ lijgur uppaa mig Lijtum og Skom̃um, Sem eg aldeilis ecke er valldur af; Mun mier ei Leifelegt ad bera Hond fyrer Hofud mier, Þar svo aastendur; Einhver ræner mig Fiaar-Hlutum mijnum, Odolum og Arfa-Gotze, edur odru þvi, sem eg er vel ad komeñ, og þad aññadhvert med Ofrijke, edur Yfervarpe Laga og Riettinda, svo eg lijd Skort aa Forsorgun miñe, Og þeirra sem mier eru Vandabundner, Konu Barna og Hiwa, Hefe ecke þad eg meie Faatækum giefa, Og biarga Naudstoddum med; Eñ hañ brwkar Fe mitt til Ohoofs og Ofmetnadar, Þvi svo giora þeir optast, Er laata Þienara sijna stockva yfer hvern Þroskulld, Til ad fylla Hws Drottna siña med Raane og Svikum, Zoph. 1. Mun Gud baña mier ad veria mitt med Logum a moote slijkum Ofsoopa? Fiærre sie þvi aññars hefde hañ ecke gyrdt i krijngum Frelse mitt, og Eigur mijnar med Lagaña Mwr: Ecke sie eg ad Ritningeñ legge þad Nabot til Lijta, Þott hañ neitade Achab um̃ siñ Vijngard,

gard; Eñ sa giorer hid sama, sem ver sitt med riettum Logum. Gud hefur boded mier, ad eg skule elska miñ Naunga sem siaalfañ mig, Eñ ecke framar. Oskande være, ad Meñ giætu þad vel hallded, Pad heyrer Gude einum til, Ad elska hañ framar øllum Hlutum, Og [illegible]vel Lijfenu, Pad a og ad giora vid Brædurna, seger Johañes, Hañs vegna, 1. Joh. 3. Eñ su Elska er i þvi foolgeñ, ad hiaalpa honum og forsvara fyrer Omilldum Moñum, Eñ ecke i þvi, ad laata Skaalkeñ ræna sig og Fefletta, ef eg maa Lagaña uidoota, Pad er eingu betra, eñ ad forsmaa Guds Gaafur, er hañ veiter mier til Uppheldis, Eñ eg vil þær ecke nyta: Eg veit og, ad eg er skylldugur ad styrkia Maal Eckiuñar og hiñe[illegible]urlausa, Mun eg þa ei meiga gaanga i Riett fyrer þau, Kuñe þeim þar med H[illegible]ad vera, Ef mier þad Logeñ leifa? Af øllu þessu hygg eg nu audsært vera, ad þad ecke einasta er Leifelegt, helldur og gott Verk a Stundum, ad leita Laga og Riettar aa moote Araasum vondra Maña; Eñ þad a ad skie med allre Hoogværd, aan Haturs og Reide, Svo sem aadur er sagt, þvi hañ sem Rietteñ sett hefur, Hañ hefur og sagt: Elsked Ovine ydar, Matth. 5. Og nær þad ecke sijdur til Riettargaangsins, helldur eñ til hvers añars Vidskiptis vors, og Umgeingnis i Heimenum. Saa sem elskar Ovin siñ, Hañ elskar siaalfañ sig, Pvi under eins og hañ fyrergiefur sijnum Broodur hañs Misgiorder, Pa auglijser hañ sig þar med ad vera Barn sijns Fødur, Sem aa Himnum er, Hañ tekur under eins Aflaat og Kvittun af Gude fyrer sijnar eigeñ Synder, Ef hañ giorer þad af Hiarta, Marc. 11.

DRotteñ hefur ecke bañad siaalfañ Hluteñ, Helldur raanga Atferd Hlutarens, þad er, ad brwka Rietteñ til ad hefna sijn, Eñ ecke til ad naa Riette sijnum, ad bera Fe i Dooma, ad wtvega folsk Vitne, ad brwka Laga-Krooka, og adskiliañlega Raangs-Leitne; Ad erta upp illt Skap med Brixlum og Skwt-Yrdum, Jafnvel i riettu Maale, til þess, ad faa meire Hefnd yfer sijnum Mootstødu-Mañe, Eñ hañ i fyrstu hafde tiluñed, Allt svoddañ er af hinum Vonda, þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Riettar-Gange ad brwka, helldur streingelega bañad, Eñ allra hellst ad hatast vid siñ Mootstødu-Mañ, Og sa þad giorer, Hañ verdur eins sekur fyrer Gude, svo sem hiñ, Poott alldrei eige hañ svo gott Maal, Og hvad hefe eg þa gott af þvi, Ad eg spille Myskun Guds yfer mier, Til ad hatast vid hañ, er vid mig afgiorde, Pvi Gud kañ ad Myskuna honum, Ef hañ ydrast, eñ eg aa eingrar Vægdar Von, Svo leinge sem eg el Hatur til hañs. DRotteñ seger og ad søñu hier i Gudspiallenu, Ad sa sem hefur giort aa añars Hlut, Hañ skule sættast vid Broodur siñ, aadur hañ offrar Gaafu sijna; Eñ um hiñ sem misgiort er vid, segier hañ med aalijka moote, Marc. 11. Og þegar þier standed bwner til ad bidiast fyrer (þad er ad offra Gude Bæn siñe) þa tilgiefed, Ef þier hafed nockud aa moote einhverium, svo ad ydar Fader, Sem aa Himnum er, Forlaate ydur ydar Misgiorder; Skyllda eg þa bera Hatur til hañs, Sem eg aa Maal-Stad vid, Poott alldrei ætte eg um svo saart ad binda, Pad være ærs Mañs Æde, og ecke þess, sem Heilvita er i sijnum Christeñdoome, Par eg aa Daglega ad bidia þessa Bæn: Fyrergief Oss Vorar Skullder, Svo Sem

Vier

Vier Fyrergiefum Vorum Skulldunautum, Og veit, ad eg ecke fæ Kvittun Synda miña, a medañ eg hondla ecke Reidelaust vid miñ Naunga, Hvert þad er i Riettar-Gaange, edur utañ Riettar-Gaangs: Þad er og vijst, ad vor beste Riettur, er eingeñ Riettur fyrer Gude, Ef hañ vill dæma epter sijnu Riettlæte, Svo seger Job, Cap. 9. Eg veit vel, ad eingeñ Mañeskia kañ Riettlaat ad standast fyrer Gude, Og þvi skyllda eg þa hata Ovin miñ, Fyrst hañ hefur skipad mier ad elska hañ, Sem a svo mikil Raad a mier, ad hañ gietur fordæmt mig, nær hañ vill. Þess er og ad giæta, ad ecke hlaupe Meñ til Doomarans um hvern Hiegooma, Þad kieñer Agyrne og Orooa, ad vilia þrætta um Smaamune, Og sæmer ecke þeim, Sem vill laata sig Hugprwdañ kalla, Aukhelldur Riett-Christnum Mañe, Hverium ad byriar ad vera liwfum a ad sættast, svo vel med nockrum Skada sijnum, helldur eñ ad draga siñ Moot-Part fyrer Doomarañ, honum til meire Skada, og Hneisu þeirrar, Er hiñ hefur ecke Gagn af, Þoott ei hafe Meñ alltijd hallden Hlut, Sierdeilis ef ad kieppa er um þa Hlute, Sem Lijfs-Næringu ei vidvijkia, Hveria Paulus sijnest ei vilia ha fa under Doom Heidingiaña, 1. Cor. 6. Einkum þar Frelsareñ hefur bañad oss ad syrgia fyrer heñe, Luc 21. Og brwkar þad sama Ord i þeim Stad, sem Postuleñ hier, Og þvi aamiñer hañ alla Christna Meñ med þessum Ordum, Col. 3. Jklædest svo sem Utvalder Guds Heilager og Elskañleger Hiartgrooeñe Myskunseme, Lijtelætenu, Hoogværdeñe, Poleñmædeñe, Umberande hver añañ, Og fyrergiefande hver odrum; Ef nockur hefur a moote einhverium Akiæru, Svo sem Christur hefur ydur fyrergiefed, Svo giored og þier. Gud giefe ollum sijnum Bornum þetta Hiartalag ad stunda, og þvi fast ad hallda, Þar til vier komum fyrer hiñ Stoora Allsheriar-Doom, Hvar vorer stærstu Oviner, Synd, Daude, Diofull og Helvijte skulu oss eckert Mein giora, Aukhelldur nockur Veralldar-Makt, Þvi hver vill færa Kiæru-Maal i giegn Utvolldum Guds, Þar Gud er saa sem Riettlæter, Christur er saa sem Daaeñ er, Jaa, Eñ framar Uppriseñ, Hvor og er a hægre Hond Gude, Hvor og er Medalgaangare fyrer oss, Rom. 8. Þessa Hlutskiptes uñ þu oss ad niioota eilijfe Konungur Dijrdareñar, Fyrer hañs Forþienustu, sem er alls Hollds Doomare, JEsus Christus, Amen.

# Siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 8. Cap.

J Þeim Døgum. Þa þar var eñ margt Foolk komed samañ, og hafde ecke til Matar, Kallade JEsus sijna Læresveina til sijn, og sagde til þeirra: Mig aumkar yfer Foolked, þviad i Þriar Daga hafa þeir hiaa mier vered, og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa Fastande heim til sijn fara, þa Vanmegnast þeir a Leid-ñe; Þviad sumer voru laangt ad komner. Og hañs Læresveinar svorudu honum: Hvadañ faaum vier þau Braud, hier a Eydemorku, So

ad

ad vier faaum þa Mettad? Og hañ spurde þa ad. Hverſu mørg Braud hafed þier? Þeir ſøgdu hønum Siø: Og hañ ſkipade Foolkenu nidur ad ſetiaſt aa Jordena. Og took þau Siø Brauden̄, Þackade, braut, og fieck ſijnum Læreſveinum, ad þeir legdu þau fram̄. Og þeir løgdu þau fram̄ fyrer Foolked. Þeir høfdu og faaeina Smaa-Fiſka, Og þa hina ſømu bleſſade hañ, og baud fram̄ ad leggia. En̄ þeir neyttu, og urdu Metter. Og þeir tooku upp þad yfer var Siø Karfer med Afgaangs-Leyfar. En̄ þeir ſem neytt høfdu, Voru nær Fioorar Þuſunder, Og hañ liet þa i burt fara.

## Exordium.

MAduren̄ mun ecke lifa af Einuſamañ Braude, helldur af ſierhveriu Orde, ſem fram̄geingur af Guds Muñe, Saagde Moyſes vid Iſrael Fordum, Devt. 8. Þeſſum ſømu Ordum kaſtade Frelſaren̄ Andſkotanum i Naſer, Þegar hañ freiſtade hañs, til ad giora Steina ad Braudum, Matth. 4. Þau eru og ſoñ, ſvo ſem aller adrer Guds Vitnisburder, Þvi þad maa ei Lijf kalla, Sem er aan Guds Orda, Jafnvel þoott eiñ haſe Holld og Hamſa, og lijte nooga Sællega vt. Chriſti Ord eru Lijf og Ande, Og aan þeirra er Maduren̄ eins og Paall ſegier um̄ Eckiuna, þa i Syrndum lifer, hañ er Lifande Daudur, Þo hefur Gud giefed Mañenum Fæduna, ſvo ſem añad Medal, til ad lifa af, Þar fyrer ſtendur hier: Ecke Af Einuſamañ Braude. Vitañlegt er þad, ad Gude er ecke um̄ Megn ad hallda Lijkømum vorum vid aan Matar og Dryckiar, Þad ſijna oſs Dæme Moyſis, Dæme Eliæ, Eg ſvarar ... Er foſtudu i heila 40. Daga, Og maa ſijnaſt, ad þeir Moyſes og Elias hafe vered DRottens Fyrermyndan i þeſſu, Og þvi ſkyllde hañ ei kuña ad ala Mañen̄ aan Fædſlunar, Sem ad i Eydemørku ſadde 5000. Mañs med Fim̄ Bygg-Braudum og Tveim Fiſkum, Joh. 6. Og i þeſſa Dags H. Evangelio heyrum vier, ad hañs mikla Almættis Hønd mettar 4000. med eins litlum Koſte. Ut af þvi Fyrſta Krapta-Verkenu hefe eg nockud aadur talad i þeſſare Book, um̄ þad, hverneg vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar, Hvad eg Oſka ad fiñe goodañ Stad i Hiortum þeirra ſem leſa edur heyra. En̄ nu vil eg vt af þeſſu H. Gudſpialle alleina þar um̄ tala, hvad oſs eige ad ſtyrkia i Trwñe til ad treyſta Gude, og varpa allre vorre Ahyggiu uppaa hañ, Nær oſs vantar þeſſarar Veralldar Mune. Hiaalpa oſs til þeſſa, DRotten̄ miñ, Fyrer þitt Dijra Nafn og Sonarens Forþienuſtu, AMEN.

## Utleggingen̄.

HAd er Graatlegt til ad vita, hverſu ad Naattura Mañſins epter Spillinguna er baag til ad treyſta Gude, þegar þad er ecke fyrer Augunum ſem eta ſkal. Moyſes ſloo aa Kletten̄ i Horeb, og þar flaut Vatn vt af, ſvo ad allur Iſrael drack, Exod. 17.

17. Eñ er Gud baud honum i Eydemørkū Zin ad giøra hid sama i Aññad Siñ, Pa efadeſt hañ, og ſloo Tviſvar a Biarged, Num. 20. Hañ ſaa Daglega, ad Gud fæddeþar med Manna af Himnum ofañ; Eñ er Foolked moglade, og beidde um̄ Kiøt, Eñ hañ bar þad fyrer Gud, Sem hiet ad giefa þeim Kiøt ad eta allt til Leidenda, Pa var þo ecke Trweñ ſterkare hiaa ſialfum Moyſe, eñ ſvo, ad hañ ſagde, Num. 11. Þetta Foolk er Sex Hundrud Þuſund Mañs, og þu ſegier: Eg ſkal giefa þeim Kiøt, ſvo þeir ete i heilañ Maanud. Læreſveinarner hofdu ſied þad mikla Krapta-Verk, Er JEſus hafde giørt ſkõmu aadur eñ þeſſe Jardteikn ſkiede, nærre þvi i þeſſum ſama Stad, er hañ ſadde 5000. Mañs med Fim̄ Bygg-Braudum og Tveim Fiſkum, Joh 6. Pa talde Philippus Tormerke a Spurningu DRotteñs, og ſagde: Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecke; Eñ hier foor ecke betur, Nema midur være. HVadañ Faaum Vier Þau BRaud Hier A Eyde-Mørku, Ad Vier Faaum Þaa Mettad. Og epter þad þeir hofdu ſied bæde þeſſe Krapta-Verk, og morg oñur fleire, Pa ætludu þeir hañ munde Braudsþurfe vera, Er hañ took þeim Vara fyrer Swr-Deige Herodis og Phariſæaña a Skipenu, Svo ſem leſa maa i þeſſum ſama 8. Cap. Marci. Af hveriu m og raada maa, ad þad hafe ſkied ſtrax epter þeſſa Dijrdlegu Jardteikn. Gud betre, ad þad hender oſs a Stundum Chriſtna Meñ, ſem Lauſnareñ ſegier um̄ Heidingiana, Matth. 6. Hvad eigum vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigum vier ad klædaſt? Eñ þar til verdur ei betur ſvarad, eñ ſialfur hañ ſvarad hefur: Er ecke Lijfed meir eñ Fædſlañ, og Lijkameñ meir eñ Klædnadureñ? Seig þu mier, Guds Barn, Skoop hañ þig ecke Daaſamlega i Moodur-Lijfe? Gaf hañ þier ecke Saal og Lijkama? Endurleyſte hañ þig ecke med ſijns Sonar dijra Bloode? Hefur hañ ecke Endurgieted þig dauðañ i Syndunum? Hefur hañ ecke fooſtrad þig med ſijnu H. Orde? Hefur hañ ecke aled þig a ſijns Sonar Hollde og Bloode? Helldur hañ ecke ollu þeſſu vid Makt eñ nu daaſamlega, og Undrunarſamlega a Stundum? Eg vil taka til þeſs ſem dijraſt og Daaſamlegaſt er. Hafe hañ giefed oſs Soneñ, Þvi mun hañ þa ecke giefa oſs alla Hlute med honum? Og ef hañ giefur oſs alla Hlute, Pa giefur hañ oſs einig Forſorgun Lijkamaña. Hafe hañ aled Oñ fyrer oſs, Bæde i Moodur-Lijfe, og allt upp þadañ, i Andlegañ og Lijkamlegañ Maata, Mun hañ þa Onijta ſitt eiged Verk? Nema ad Mañeſkiañ giørde Guds Almætte Vanmaattugt a ſier med Trwarleyſuñe, Eins og Læreſveinarner, Er þeir gaatu ecke læknad hiñ Twnglſiwka. Þu ſegier; Eg fiñ opt Breſt a Atviñu miñe: Hwngur og Dijrtijd meiga Meñ Stundum þola, Hvad velldur þvi? Spyr Ezechiel ad, Hañ mun ſvara þier Ordum DRotteñs. Ef eitt Land ſyndgar mig og a moote mier, Pa vil eg wtrietta mijna Hond yfer þad ſama, og i burt ſvipta Brauds Nægtunum, Og eg vil ſenda þangad Hallære, og upprtyckia þar iñe bæde Moñum og Fienade, Ezech. 14. Mun þad nockud raſka Sañſøgle DRotteñs, þoott Meñ giøre ſig hañs Orlætis Overduga; Þegar ad allra Handa Leſter og Klæker, Guds Ords Foregtun, Vanbrwkun hañs Hvijldar-Dags, Raanglæte, Meinſære, Lygar,

Þioof-

Dioofnadur, Agyrne, Drambseme, Ofbellde, Agg, Reide, Præta, Svik og Underferle, og añad þessu lijkt; Þegar allt þetta geingur Fiollunum hærra i Landenu, Er þa ad furda, þoott hañ apturlyke siñe milldu Hond a Stundum? Eda seger ecke Paulus: Ad fyrer þess hattar Glæpe kome Guds Reide yfer Born Vantruareñar, Col. 3. Hver vill þa skyllda hañ til, ad hañ skule Naadugur vera? Leitum þvi DRotteñs a medañ hañ er ad fiña, Kollum a hañ a medañ hañ er naalægur; Sa hiñ Ogudlege late af sijnum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugan, og snwe sier til DRotteñs, Þa mun hañ Myskuna honum, og til Guds vors, Þviad i hia honum er mikel Forergiefning, Esa. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Aren, Sem Gras Hepþañ, Kaal Ormureñ, Tre-Madkureñ og Gras-Madkureñ hafa fra ydur teked. seger DRotteñ, Joel 2. O miñ Gud! Hver hefur þier nockurn Tijma a eked? Hver hefur þier laanad, Þad þu skyllder honum Endurgiallda? Þad meigum vier jata i þessu fatæka Lande, Ad hafe Gud einhveriu Siñe straffad Synder vorar med Oaaran nockurre, Þa hefur hañs Millde ofs þad endurgollded med mikelle Ar-Giæsku, Bæde til Sioos og Lands. Eñ hvad fylger a epter hia Spaamañenum i sama Capitula? Nær þier eted Oaflaatañlega, og erud metter, Þa munud þier lofa Nafn DRotteñs Guds ydar; Eñ fiaaum til, hvert Fader Myskun semdaña mune ecke hafa funded Skort a þessu hia morgum af ofs, Og hvert þad mune ecke miklu helldur eiga heima hia sumum, Er stendur hia Hoseam, Cap. 13. Under eins og þeir metter urdu, Þa er Hiarta þeirra upphafed, og hafa gleimt mier.

Einhver vill segia: Eg fiñ ecke þessa Glæpe hia mier; Eg Ottast Gud og Elska, svo sem mier er mogulegt, Og giore honum Þacker, Samt maa eg og mijner þola Hwngur og Þorsta, Kullda og Klædleyse. Heyr mier uñ Stund, Barn mitt. Muntu vera sa einaste af Guds Bornum, Sem hañ leggur þvilijkt uppa? Maattu ecke þeir Abraham, Isaac og Jacob verda Land-Flootta fyrer Hwngurs-Saker? Gen. 12. 26. og 46. Maatte ecke Elias fasta i 40. Daga? 1. Reg. 19. Hvad margt segiest Paall hafa maatt Illt þola fyrer Evangelium? Eñ þetta maattu þeir lijda til þess, ad þeir vissu hvad þeir væru, Sem er syndugar Mañeskiur, hvar þeir væru, Þad er i Heimenum, I Utlegdeñe, og ecke i Fodur-Landenu, hverneñ þeir vera skylldu, Sem er stoduger i Trwñe, Poleñmooder i Hormungeñe, Og glader i Voneñe; Sama glører hañ vid þig, Þvi ecke er hia honum Mañgreinar Alit, Act. 10. Þykest þu nu betre eñ svo, Ad þier sie fullgott ad hafa lijkañ Kost med þessum Guds Koppum, þvi angrar sig þa Saala þijn, og þvi er hun Oroolég i þier? Vona þu a DRotteñ, Þvi þu munt eñ nu prijsa hañ, Ps. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þvijngan med Guds Foolke, eins og Moyses, helldur eñ lifa i allskins Sælu med Heimenum, og fyrerfarast med honum? Hversu betra er þier, ad þu gyrnest ad sedjast af Molum þeim, Er detta af Bordum hiñs Rijka hier i Heimenum, Eñ ad þia lange epter Einum Vatns-Dropa af Fijngre Lazari i Helvijte og Kvolunum? Og hvad veitstu, Hversu leinge DRotteñ vill laata þeña þiñ Skort vara; Hañ er Eiñ Stoor Kongur, Ecke er hañ leingur Rijkañ eñ Fatækañ

ad giøra. Jacob foor med eiñ Staf wt af sijns Fødurs-Hwse, Gen. 32. Eñ hvad
mikeñ Fiølda Nauta og Sauda, Geita, Asna, Præla og Ambꜳtta kom hañ heim
aptur med. Dæme þessa Foolks mꜳ furdanlegt þykia nu ꜳ þessare Kølldu og Van-
trwüdu Olld, Þeir fylgdu Christo epter ꜳ Eydemørku, Til ad heyra Kieñingar hañs,
Jafnvel Heidingiar af Tyro og Sidon, Og eckert tooku þeir med sier ad neyta, Svo sem
siꜳ mꜳ af Evangelio: Einhver mun segia, ad þeir hafe ei bwest vid svo lꜳngre Dv-
øl ꜳ Eydemørkuñe, Þo fañst eingeñ sem aptursnere, svo Meñ vite, Og ad vijsu voru hier
4000. Mañs, sem neyttu; Þad mꜳ sijnast, ad DRottens Ord hafe so vel smackast þeim
i Hiartanu, ad þeir hafe ei funded til Hwngursins i Maganum, Og valla gietur þad ød-
ruvijse vered, Eñ ad þeir hafe treyst þvi, ad JEsus munde ꜳ einhvern Hꜳtt siꜳ þeim
Farborda, Þar til hefur ꜳn Efa hiꜳlpad hid Fyrra Krapta-Verked, sem eñ þa hefur
øllum i fersku Miñe vered; Eñ i þvi gietur Johañes ecke um Tijmaleingdena; Hier
af kalla eg þad satt, Er David segier, Ps 32. Augu DRottens lijta til þeirra sem hañ el-
ska og vona ꜳ hañs Giæsku, Og þo fiñast þeir, æ þvi verr, ꜳ medal Christeña Maña, sem
vidlijkt eru lynder og Høfuds-Madureñ i Samaria, Er sagde: Þo ad DRotteñ giøre
Glugga ꜳ Himeneñ, þa kañ þetta ecke ad skie, 2. Reg. 7. Añars mundu Meñ bijda ept-
er DRottne, Eñ ecke hlaupa til ad Ræna, Stela, Liwga, Svijkia, Hripsa Brauded
wt af Nꜳungans Muñe, Og brwka adskillañlega Rꜳngsleitne i Kaupum og Sølum,
og añare Vidhøndlan. Mig Aumkar Yfer Foolked, segier DRotteñ: Þvi J Þriꜳ
Daga Hafa Þeir Hiꜳ Mier Vered, Og Ecke Til Matar Haft. Margur fastar
skiemur, ꜳdur hañ verdur Oþoleñmoodur. Mig Aumkar Yfer Foolked, Segier hin
Eilijfa Giæska, Hañs Myskunar-Ydur komust vid i hønum, svo sem i Høfud-Sprok-
nu stendur, Svo hañ hlaut þeim Nꜳdugur ad vera: Þad segier ecke hier, ad þeir hafe
kvartad um Hwngur, hañ visse vel, ad þeir høfdu þessa Þørf: Eñ segied mier nu, Børn
mijn; Munu Ydur hañs Myskunar umbreitt vera? Mun hin riika Ørlætis-Hønd
stutt vordeñ? Fiærre sie þvi, Samur er Gud og hañ hefur vered; Eñ ef vier viliu m so-
mu Medaumkunar nioota, Þa lærum Tveñt hier af: Eitt af Foolkenu, Añad af Laus-
naranum. Af Foolkenu ad heyra Guds Ord liwflega, meta þad øllu Tijmañlegu fra-
mar, Og ad treysta Gude, og þacka hønum midt i Skortenum og Ørbyrgdeñe. Af
Frelsaranum, ad siꜳ Aumur ꜳ hinum Volada og Naudþurftuga; Ad brioota Hwng-
rudum vort Braud; Ecke af Fordilld, Edur ad wtvega oss Nafn þar med, Svo sem
Hræsnarar, þeir ed giøra Ølmusur sijnar fyrer Mønum, helldur af Trwñe, af Christe-
legre Medaumkan, af Elskuñe til Guds og Nꜳungans. Breyte nu nockur þañveg,
ad hañ heyrer Guds Ord, og vardveiter þau, Treyster Gude i øllum sijnum Vandræd-
um, Og leitar Næringar siñar i Guds Otta, Þa vil eg þad segia, ad fyrr munu Einglar-
ner færa hønum Braud af Himnum ofañ, Fyrr munu Hrafnarner bera hønum Fæd-
slu, Fyrr munu Steinar ad Braudum verda, og Fiskarner flytia hønum Gull og Sil-
fur i Muñenum, Jꜳ, Christur mꜳ fyrr afneita siꜳlfum sier, Hvad Paulus kallar O-

mogu-

mœgulegt, helldur eñ ad hañ lœte Saul hins Riettlæta Hwngur þola, Prov. 10. Nema hañ vilie reyna hañ þar med, og siae honum þad fyrer einhveriu Goodu verda. Miñ Matur og Dryckur er, ad giora hañs Vilia, Er mig sende, Sagde Frelsareñ, Joh. 4. Eñ ef þad er hañs Vilie, ad þu lijder uñ Hrijd Skort a Næringu þiñe, Pa vert eins Lyndur og þiñ Lausnare var, Og ætla þig ecke yfergiefeñ, Pott þu meiger ad Guds Vilia nockud Jllt lijda, Er vier svo køllum; Eñ þad er alldrei Jllt, Sem Gott af sier giefur. Ecke verda Vijn-Bereñ samañleseñ af Þyrnunum edur Fijkiurnar af Þistlunum, Luc. 6. Giæt ad Dæmum Heilagra. Hversu særlega klagar Job i sijnum Mañ-Raunum, Er hañ segier, Job. 30. Pu ert vordeñ hardwdigur a moote mier, Epter Styrkleika Handar þiñar brwkar þu grimt Hatur i gegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yfergiefed hañ? Fiærre var þvi, Hiñ Fertugaste og Fyrste Capitule somu Bookar, Hañ ber þar uñ lioosast Vitne, Og sialfur Guds Madur jatar Veikleika siñ og Fævitsku i þvi, ad þeckia Guds Raad, nær hañ Endurvitkadest, og kom til sialfs sijns aptur, med þessum Ordum, Job. 42. Eg Auglijse ad eg skyllda þad ecke, Pad var furdañlega hætt fyrer ofañ mig, svo eg gat ecke þeckt þad, þvi ydrar mig i Molld og Ösku. Eins var David Lyndur, þvi segier hañ, Ps. 77. Mun DRotteñ þa Eilijflega burtkasta, Og einga Naad framar audsyna? Eñ nockru þar epter vegsamar hañ Gud med Fagnade, Segiande: Ps. 103. Hañ hefur frelsad mitt Lijf wt af Fordiorfuneñe, Og mig med Naad og Myskunseme Coronad, Pvi skyllde eingeñ Örvænta uñ Guds Vinattu, Pott ei leike allt i Lynde, Par vier siaum hier, ad hañs bestu Viner hafa mætt þvilijkt reyna. Edur meined þier, Christner Meñ, ad Fadereñ hafe miña elskad siñ Son, Pegar hañ hroopade a Krossenum: Gud miñ, Gud miñ, Pvi hefur þu yfergiefed mig? Helldur eñ þegar Christur stood a Jordanar Bockum, Og Roddeñ af Himne sagde: Pesse Er miñ Elskulegur Sonur i hverium mier Velþocknast, Matth. 3. Nei, Brædur mijner, Pa hafde hañ i honum hvad mesta Velþocknan sijna, Er hañ a Galganum hieck, Pvi fyrer hañs Dauda erum vier vid Gud forlijkter, segier Paulus, Rom. 5. Fyrer hañs særu Kvol og bitrañ Dauda, hefur hañ elskad oss i sijnum Elskulega, Eph. 1. Gud hafde Velþocknan a sijnum Syne fra Upphafe Vega siña, Og i øllum Christo, fra hinu Fyrsta Augnablike Gietnadarens fyrer Einingu Guddooms og Mañdooms. Eñ fyrer Christi Dauda a øllum þeim sem a hañs Nafn trwa, Hverium hañ hefur og Makt giefed Guds Bornum ad verda, segier Joh. Cap. 1. Og fyrst hañ hefur nu hañs Veg yfergiefed hañ uñ Stundarsaker; Eñ sijdañ aptur med Dijrd og Heidre Coronad; Villied þier þa læta ydur þad undra, Poott hañ breyte med sama Hætte vid ydur, sem i honum, og þo fyrer hañ erud Arfleidder til eilijfs Lijfs? Nei, Christner Meñ, ecke þott ad Mootlæted og Skortureñ ætte ad vara alla Æfe vora: Pvi hun er svo lijted ad reikna hia Eilijfdeñe, Og þad vier lijdum hier ad Guds Vilia, Pad verdur oss Endurgollded med Omælañlegrar Dijrdar eilijfre Pijngd, 2. Cor. 4. Mootlætingar þessara Tijma eru ei verdar þeirrar Vegsemdar, sem vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfe. Pad

er viijst, ad hiñ Naaduge Gud speñer alldrei siin Born fyrer siins Sonar Ok, nema til þess, ad þau drage þad aa þa Leid, sem til Himnarijkes liggur, Þess meiga og øll hañs Born fullorugg vera, Ad añadhvert burt-tekur hañ Mootlæted, Edur linar þvi, Edur giefur oss Krapta til ad bera þad, Þvi hañ er Trwr og freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Segied mier; Er hañ þa Amæles verdur fyrer þad, ad hañ sniir eiliifre Fyrerdæmingu i Tiimañlegañ Krossburd, Til ad afreka oss Eilijfa Glede? Eiñ Fader sender Son siñ i eitt Framande Land; Ein Mooder lætur Barn sitt i Skoola, til ad lijda Illt, svo þad verde ad Mañe; Munu þau þar fyrer hafa gleymt þeim? Kañ nockud Mooodureñ ad gleyma Barne siinu, Avexte siins Kvidar? Og þo hær gleyme, Þa skal eg samt þier ecke gleyma, Segier Afgruñ Myskunareñar, hiaa Esajam, Cap. 49. Gull-Smidureñ kastar Maalmenum i Elldeñ, Svo hañ hreinsadur verde, og giorer þar af siidañ hinar kostulegustu Gersemar; Svo breyter Gud vid siin Born, Hañ situr og bræder, Og Silfred hreinsar, Og hrein giorer Born Levi, Mal. 3. Pad er hiñ Andlega Kieñemañskap, so ad Reynsla Trwar vorrar miklu dijrmætare funden verde Gullsens Reynslu, hvert ed forgeingur, og verdur þo med Elldenum reint, til Lofs og Dijrdar og Heidurs, Nær JEsus Christus Opeñberast, 1. Pet. 1. Þetta er nu svo talad til Huggunar þeim, Er lijda Skort aa Atviñu siñe, Og meina sig þar fyrer vera af Gude yfergiefna, vegna Synda siña og Overdugleika. Eñ þar eru nockrer sem ecke eru aanægder þar med, ad þeir hafa þad þeir skulu Eta og Drecka, og þad þeir meiga Klædast med, hvad þo Paulus bijdur Christnum Mañe ad hañ skule laata sier nægia, 1. Tim. 6. Vid þessa vil eg faatt eitt talad hafa.

Pad er satt sem hiñ viijse Syrach skrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Faatækt koma af DRottne; Ef þau koma af Gude, Hver vill þa segia vid hañ, Hvad giorer þu? Segier nockud Leyr-Kiered til Smidsens, Þvi giorder þu mig svo? Rom. 9. Vill nockur efast um Vitsku hañs, ad hañ ei skynie, hvad hañs Bornum er haglegast, Edur klaga yfer hañs Riettsyne, Pad hañ giore einum Oriett? Visse Gud þad, ad þier gagnade Rijkdoomureñ betur eñ Faatækteñ, Þa munde hañ þig audugañ giort hafa, Nañsaka Skap þitt, Hvert þu munder hæfare vera til Guds Rijkis, Þott þu hefder meira eñ Daglegt Braud, Gud giørde vel, ad hañ gaf ecke Ægum Uxa-Horn, Segier i Ordshættenum, Margur munde brwka Audeñ til Ofmetnadar, Ofrijkis, Ohoofs, til ad hefna siin, Og briioota adra under sig, Ef hañ rijkur være, Sem ad lætur hægt, af þvi hañ er Faatækur. Eñ þott ad Gud giefe Audeñ vondum Moñum aa Stundum, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu Christo epter, Hver þott hañ Rijkur være, giordest hañ Faatækur, 2. Cor. 8. Villtu viña þad til Audsins, ad vera svo sem eiñ af þeim? Visse Gud ad þier Audur gagnade, segie eg eñ aptur, munde hañ ecke giefa þier hañ? Sem hefur giefed þier þad sem er laangtum betra. Eñ Naadugur Gud, Good Samviska, Heilvita Saal, Otte DRotteñs med þvi Hugarfare, sem lætur sier siina Luku nægia, Er þad ecke noogu stoor Audlegd? Adrer Ottast fyrer þvi, ad þeir kuñe ad missa Fiaar-Hlute sii⸗

na, Eñ kyñe nockur þessar Guds Gꜳfur af mier ad taka, Pa villda eg fyrst grꜳta, Pa villda eg bera mig Hormulega, Pvi ꜳ medañ eg þad hefe, Pa hefe eg allt, og nær eg misse þad, Pa misse eg allt, Jafnvel i Allsnægtum, Pvi segier David, Ps. 34. Hina Rijku brast, og þeir sulltu. Eñ þa sem ad DRottne leita, mun eckert Gott vanta. Lꜳte Gud mig ecke eta hvern Dag skijnande Krꜳser, Pa er eg þo Osollteñ, Eg une betur vid Dag-lega Fædu, helldur eñ Sælkiereñ vid hañs ꝍtvolldu Riette. Skortureñ giorer mier ꜳ Stundum Mateñ sætañ, Eg þarf ecke ad kaupa hañ dijrt: En Fylleñ giorer honum þad leidt, Sem hañ kostade til dijrum Doomum. Vefie Gud mig ecke i Pell og Pur-pura, Pa er mier eins heitt i miñe Klæda-Vod, svo sem honum i sijnu Skarlate: Fꜳ-tækteñ hefur stoor Fyrerheit i Guds Orde; Er sꜳ ecke noogu rijkur sem hefur Gud fyr-er Fiꜳrhallds-Mañ? Eñ hvad segier David, Ps. 9. Hañ er Forsvar hiña Fꜳtæ-ku, Forsvar i Neydeñe, Hañ gleymer ecke Hroope hiñs Fꜳtæka. Hvad segier hañ eñ þa aptur? Hañ mun frelsa hiñ Fꜳtæka nær hañ kallar, Og hiñ Auma, þañ er eingañ Hiꜳpar-Mañ hefur, Ps. 72. Og svo segier sialfur DRotteñ, Ps. 132. Eg vil blessa Fædslu þeirra, Og þeirra Fꜳtækum ꜳnægianlegt Braud giefa. Gud giæfe ad Meñ villdu skilia hvad mikill Skattur ad er ein Ærleg Fꜳtækt, Þeim sem una vel vid þañ Kost, Er DRotteñ lætur þeim hlotnast, Hun varnar vid morgum Syndum, Drambseme, Ohoofe, Siꜳlfhælne, Reide, Ofrijke, Og siꜳlfre Agyrndeñe, Pvi alld-rei verdur hiñ Rijke saddur, Sꜳ ed fest hefur Hiarta sitt vid Audeñ, vid Bꝍksorg og A-hyggiu, Sem draga Mañeñ frꜳ Gude i Snorur Diofulsins, Og þyngia Hiarta hañs med Ottanum ad missa Eigur sijnar, Pvi sꜳ griet alldrei fyrer Gull, sem ecke ꜳtte þad, Hun giorer Reikningskapeñ audvelldare fyrer hinum Ædsta og strꜳnga Doomara, Pvi jafnvel þott ad ollum verde hañ noogu Torvelldur, Pa ecke þeim þo sijdst, sem hafa gleymt Gude og Nꜳunganum i Velmakt siñe, Eñ sett Gull-Hnotteñ fyrer sitt Athva-rf. O! þu eilijfe Gud, Dijrdareñar Konungur, Hiꜳlpa oss ꜳ þeirre straungu Tijd, Lꜳt oss ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þessarar Næringar, Metta oss med þeim Molum, Er detta af þijnu Hꜳ Borde; Dryckia oss med Sætleik epterkomande Alld-ar, Svo ad ei vanmegnunst vier ꜳ Veigenum til Fodur-Landsens, Og nær vier erum ad Protum komner, og tokum hin sijdustu Andvorp, Pa dreip þu ꜳ vora Or-mæddu Sꜳl med þvi Vatnenu, Epter hvert eingañ mun þyrsta ad Eilijfu. Bænheyr þad, Nꜳduge Fader, Fyrer Lausnarans JEsu Christi Skulld,

AMEN

# Attunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 7. Cap.

J Pañ

I Þañ Tijma. JEsus sagde til siña Læresveina: Vakted ydur fyrer Fals Spaamoñum, sem koma til ydar i Sauda-Klædum, eñ hid Jñra eru þeir glepsande Vargar. Ut af þeirra Avoxtum meiged þier þeckia þaa. Verda nockud Vijn-Ber eñ samañleseñ af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þystlunum? So ber og hvørt gott Trie goodañ Avoxt, eñ hvørt roted Trie vondañ Avoxt., Gott Trie gietur ecke fært vondañ Avoxt, og ei helldur gietur roted Trie fært goodañ Avoxt. Og hvørt þad Trie sem ecke giører goodañ Avoxt, skal upphøggvast og i Elld kastast. Þar fyrer meiged þier wt af þeirra Avoxtum þeckia þaa. Þeir munu ei aller sem til mijn segia, DRotteñ, DRotteñ, iñgaanga i Guds Rijke, Helldur þeir sem giøra Villia mijns Fødurs, þess aa Himnum er. Marger munu til mijn segia aa þeim Deige, HErra, HErra, Høfum vier ecke spaad i þijnu Nafne, Høfum vier ecke i þijnu Nafne Diøfla wtreked, og giørdum i þijnu Nafne mørg Krapta-Verk? Og eg-mun þa jaata þeim, ad alldrei þeckta eg ydur, Fared fraa mier aller Illgiørda Meñ.

Exordium.

Spaamadur nefnest i H. Ritningu, Ecke einasta sa, sem ad Ovordna Hlute fyrer segier, Helldur og sierhver eirn, sa ed kieñer riettañ Lærdoom: Svo saade Gud vid Abimelech uñ Abraham ;, Hañ skal bidia fyrer þier, Þvi hañ er Spaamadur, Gen. 20. Sa er spaaer, Hañ talar fyrer Moñunum til Uppbyggingar, Til Aminñingar og Huggunar, segier Paulus, 1. Cor. 14. Þeirra Apar voru Fals-Spaameñerner, Hveria Frelsareñ bijdur ad Meñ varast skule hier i Gudspiallenu, Þvi þeir kome i Sauda-Klædum, Eñ hid Jñra sieu þeir glepsande Vargar, Og er eingeñ Efe aa þvi, ad Skriftlærder og Phariseæi hafa ad nockru Leite aatt Sneid þessa, Eñ þo ecke ad øllu, Þvi ecke voru þeir af Christi Sauda Hwse, helldur meinar og DRotteñ hier med þaa, Er sijdar uppkomu, og spilltu Kieñingu Guds i Christeñdoomenum, Þaa nefner Paulus falska Brædur, 2. Cor. 11. Og til Galat. Cap. 2. Talar hañ uñ Heimuglega iñsmogna falska Brædur; Sem ad villdu reyna Frelse þad, Er þeir Trwudu høfdu i JEsu Christo, Svo ad þeir hneptu þaa i Prældoom. Soddañ Illgrese saade Fiandmadureñ nidur medal Hveitesins i Christi Akre fram epter Olldunum, Svo sem af Christeñdooms Søgunum lioost er, og saaer eñ nu vijda i Heimenum, Eñ þar fyrer faaum vier alldrei Gude fullþackad, Ad vier vitum ecke af slijku ad segia. Eingeñ er sa, ed leitest vid ad spilla riettre Trw i Lande voru, Þad er stoor Velgiørningur DRotteñs, ad hañ hefur uñt oss ad verka Saaluhiaalp vora i Einfalldleika vors Hiarta, Þvi vil eg ecke hier uñ framar tala i þetta Siñ, Helldur taka mier

miet fyrer Hendur, ad wtskijra þa Grein af Evangelio, sem øllum ætte Hugsost ad vera, Sem er þesse: PEir Munu Ecke Aller, Sem Til Mijn Segia, HErra, HErra, INNGANGA J GUds Rijke, Helldur Peir, Sem Giora VJlia Mijns FØdur, PEss A HJmnum Er: Og af heñe Tveñt Hugleida 1. Hvad þad merke ad kalla HERRA, HERRA. 2. Hvad þad sie ad giora Guds Vilia.

Styrk oss hier til, miñ Gud, Fyrer JEsum Christum, Med Naad H. Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAld er atgiætt, Sem ad Bernhardus Lærefader segier i einum Stad. Christner hafa af Christo Nafn feinged: Pad være mikils verdt, Ad svo sem þeir eru Erfingiar Nafnsins, svo væru þeir og Heilagleikans. Eingeñ Nafn-Boot er fegre, Eingeñ stærre, eñ ad heita Christen, Ef nockur bar hana riettelega. Christeñ og Heilagur var sama Nafn, a medañ Christeñdoomureñ var eñ þa i Blooma sijnum; Heilsed øllum Heilogum, segier Paulus, Pad er øllum Christnum: Eñ ef eingeñ Renta fylger þessu heglega Nafne, Pa er sa ecke heilagre sem þad ber, helldur eñ Vijned edur Vidsmiøred, Edur einhver Matur vard heilagur af þvi i Gamla Testamentenu, þoott ad einhver snerte þad, Sa ed bar helgad Kiot i Kiool-Lafe sijnu, Hagg. 2. Sa sem ecke hefur Christi Anda, segier Paulus, Hañ er ecke hañs, Rom. 8. Hver ed priider sig med hinu fagra Christeñdooms Nafne, eñ lifer þo ecke Christelegu Lijferne, Hañ er lijkur Eik þeirre, Er hefur græn Blod og friid, eñ Avexte einga, Pvi segier Lausnareñ i Gudspiallenu: Af Peirra AVexptum Skulud Pier Peckia Pa. Og svo sem DRotteñ formællte Trienu, þvi Er eingar voru Fijkiur a, og ecke nema Blodeñ toom, Matth. 21. Svo vill hañ og til hiña segia, Er Raangleted æfa, a hinum Effsta Deige: Alldrei þeckta eg ydur, Svo sem hier stendur i Gudspiallenu. Peir Munu Ecke Aller Sem Til Mijn Segia, HErra, HErra, JNNGanga i GUds Rijke, segier DRotteñ. Pegar ad Ritningeñ Tvijtekur eitt Ord, Pa vill hun lata skiliast eitthvert merkelegt þar med, Peir segia: HErra, HErra; Svo eru þeir akafer i hiñe wtvortis Pioonustu. Ecke vantade Gud nie hañs Christ fagra Titla hia Gydingum, Peir nefndu Fodur hañs siñ Gud, eñ þecktu hañ þo ecke, Peir kolludu DRotteñ Rabbi edur Meistara siñ, eñ sooktu þo epter ad Lijflata hañ, Peir tijdkudu langar Bæner i Samkundunum, Og a Gatna-Mootum, eñ under Hylmingu þeirra wtsugu þeir Hws Eckna og Fodurlausra, Matth. 23. Pad verdur valla med Ordum sagt, hversu ad Hræsneñ glører alla Guds Pioonkan Onijta i hañs Auglite; Peir fostudu Tvisvar i Viku, og gafu Tijunder af øllu þvi þeir attu, Eñ lietu þad þo Ogiørt, sem þijngra var i Logmalenu, Doomeñ, Myskunseme og Trwna, Matth. 23. Pad olle þvi, Ad svo sem þeir afmyndudu Asiauner sijnar, Nær þeir fostudu til þess, ad lata sia, ad þeir væru Fastande; Svo afmyndade Hræsneñ þeirra bestu Verk fyrer Gude, Svo ad Frelsareñ segier: Ad þeir hafe sijn Laun i burtu teked, Matth. 6. Pad er, Ad þeir Hluter, Er i sialfum sier gooder voru, og hefdu

ollu hañs Lide. J Einu fargade hañ Canaanitum fyrer Hond Josuæ. J Einu Augnablike sloo hañ þa med Blindne, Er faalmudu epter Hwse Loths, Gen. 19. J Einu Augnablike stack hañ Augun wt aa Elimas, Sem mootstood Paulo, Er hañ foor med Christne-Boded, Act. 13. Mun hañ ei kuña ad giora hid sama vid þig, Ef þu mootstendur hañs Plenurum og villt ei heyra þeim, nær þeir tala Guds Eyrende og ecke sitt? Eda hvad villtu giora, Nema þu hafer eitthvad þier til Saalar-Gagns numed af Orde DRottens, aa medañ þu hafder Eyrun heil, Ef hañ kyñe ad laata þier tilfalla þvilijkañ Breſt, Eg vil þad i stuttu Maale segia, Pu hefder eckert til ad kieña þier ad þeckia Syndena, Eckert til ad faa Boot heñar, Og eckert til ad hugga þig i þessu Volæde? Og fyrer þvi, ad þu alldrei hafder smackad hid gooda Guds Ord, Svo sem þad er, Pa gietur ecke aa þier sañast Maalshaattur sa, ad eingeñ vite hvad hañ aatt hefur fyrr eñ hañ miste. Einhver vill segia: Eg giet lesed Guds Ord þoott ecke heyre eg þad; Pvi er verr, ad þeir eru svo faaer, sem lesa kuña, Jaa, þoott sialfer kuñe, Pa hyrda sumer ecke uñ ad kieña þad Bornum sijnum, Og er þad Gudlaust Ræktarleyse, Eñ hverneg sem þvi er vared, Hvad veistu nema Gud take under eins fraa þier Sioonena og Heyrnena; Og hvar stendur þu þa, Ef þu hefur forsmaad Rijkdoom hañs Langlundargieds, Rom. 2. J þvi, ad vilia ecke hañs Ord heyra þier til Saaluhiaalpar, Og þoott Gud spare Eyru þijn allt fram i Daudañ, Pa vita Meñ, ad ecke siaa þa Augun leingur, og ecke heyra þa Eyrun leingur, Hiartad verdur þa ad tala vid Gud, Og Heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere, Eñ ef Meñ hafa styggt hañ med Vanrækt Guds Orda og slockt hañ med Forogtun þeirra, Hvar i aa hañ þa ad lifa, Ef eckert var numed sem hañ kuñe ad lifa i, Og er þetta eitt skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu, ad gaanga i Guds Hws, Og helldur þad fyrer Eintoomes Ceremoniu, Pvi er verr, kañ skie þad sie og svo hiaa allmorgum, sem þar byrtast, Alleina fyrer Sida Saker, Eñ giæte Meñ þess, ad fyrer utañ þad, ad Gud hefur Skulldbunded sig til ad vera midt aa millum Tveggia edur Þriggia, Sem eru samañsafnader i hañs Nafne, Matth. 18. Pa er þad ei svo miog vijda i Lande voru, ad Almeñingur faae Guds Ord heyrt nema i Kyrkiuñe; O! hvad miklu Goodu fyrrer sa Madur sig, er byrger Eyrun fyrer Guds Orde, Pau eru Lijf og Ande, segier Frelsareñ, Joh. 6. Pvi er hañ Andlega daudur sem aan þeirra er. Vier trwum, ad fyrer Trwna verde Madureñ hoolpeñ aan Verkaña, segier Paulus: Eñ Trweñ er af Heyrneñe, Eñ Heyrneñ af Guds Orde, segier hañ, Rom. 10. Hvar vill hañ lenda þa, sem er Trwarlaus, Nema i eilijfre Glotun? Utañ hañ betre sig. Mijnar Sauder heyra mijna Raust, segier Frelsareñ, Joh. 10. Eñ hvers munu þeir vera, sem ei vilia heyra Roddu hañs? Munu þeir ecke setter verda med Hofrunum aa Vinstre Hlid, og þa uñ sijder heyra hina skielfelegu Raust alls Hollds Doomara; Fared fraa mier bolvader i eilijfañ Elld, Sem fyrerbweñ er Dioflenum, og ollum hañs Aarum, Matth. 25. Saa sem er af Gude, hañ heyrer Guds Ord, segier Lausnareñ, Joh. 10. Eñ þeir sem þad ecke heyra vilia, og þo heyra kuña, af hverium eru þeir? Af Fodur þeirra

ra Andskotanum, Svo sem D. Rotteñ sagde vid Gydinga Fordum. Ut af þessare Veyfu fædest margfalldur Eyrna-Dofe. Hvad giora þeir ed heyra Vein hins Naudstadda og Volada, eñ byrgia sig þo fyrer sijnu eigeñ Hollde? Pad er fyrer þeim sem ad eru somu Natturu og vier, og giefa þeim eckert, Jafnvel þoott sumer hafe Audlegd Heims þessa. Eingeñ hefur uñ Allder sitt eiged Holld hatad, Segier Guds Ande, helldur fostrar hañ þad og nærer; Og hvad er þad þa, ad eg skule siaa mitt eiged Holld, eiñ Guds Veslæling, miñ Brooder i Christo, ad eg skule siaa hañ friosa edur svellta i Hel, þar eg hefe þo noog, Jafnvel til ad kosta uppaa Munade mijna? Þetta er stakt Heyrnarleyse. Sa sem Oskunda og Oriettteñ lijdur, Hañ flijr til Doomarans, og bidur uñ Adstod, Eñ hañ sem af Gude og Konungenum er settur til ad skipa Riettendum Mañа, Hañ stijngur Fijngrenum i bæde Eyrun, og vill ei heyra Kvein Log Næningsens, Añadhvert fyrer Lete, Fyrer Vinattu, Fyrer Hrædslu edur Agyrnes Saker, svo hiñ fer jafnnær fraa honum: Verr er honum fared eñ hinum Ranglaata Doomara, Er Frelsareñ talar uñ i Epterlijkinguñe hiaa Luc. 18. Hver þoott hañ Ottadest hverke Gud nie Meñ, Þa liet hañ sig þo samt leida af Praa-Beidne Eckiuñar, til ad aalijta Maal heñar. Ein gomul Kona beidde Augustum Keysara Eitt Siñ, ad heyra Maal sitt; Eñ hañ kvadst ecke Toom hafa; Hun svarade: Svo legg þa af Stioornena: Vid þesse Sañ-Orde braa svo þeim vijsa Hofdingia, Ad hañ leit strax aa Maal heñar, og dæmde þad, Eñ þad være Naudlegt, ad þesse Varmeñe, Sem audur er uñtalad, ad þeir legdu af sier þetta Stark, Þar þeir valla eru hæfare til þess, eñ Asneñ til Horpu-Slaattar. Meñ nema hañ Lim i burtu af Kroppnum, sem er daudur, Og lijklegur til ad spille odrum, Sæmra være og þeim er svo Þyckheyrder eru, Sem nu hefe eg sagt, ad Eyru þeirra være afskoreñ, helldur eñ þau stædu þeim til Vanheidurs, Eñ eingum til Gagns aa Hofdenu. Þar er eingeñ kiendur sem hañ kiemur ecke: Ef þier blinder værud, þa hefdud þier ecke Synd, Eñ nu segied þier: Vier siaaum, Þar fyrer blijfur Synd ydar, sagde Lausnareñ vid Phariseos, Joh. 9. Svo være og hinum betra, ad Hluster þeirra byrgdar væru, helldur eñ ad hafa Eyru og heyra ecke, Eins og oñur Lijkneskia. Margt mætte hier uñ fleira tala, Þo læt eg þetta duga ad svo stoddu: Eñ þad eg hefe ad frarnañ talad uñ Heyrnar-Skorteñ, Þad sama vil eg uñ Maal-Helltena tala, Ad soñu er hun stoor Vanse Lijkamans; Margur Ohlutvandur forsmaaer hañ, sem er svo Maale fareñ, Þeir hæda ad honum, herma epter þeim, Og laata miklu verr optast, eñ hiner sem þeir epter herma: Þetta heiter ad lasta Skaparañ, Þvi hañ hefur Mañenum Maaled giefed, Og sa ed fremur þvilijkt Gudleyse, Hañ er nærsta illa talande i hañs Eyrum, Sem allt heyrer, Hañ giorer Maal-Snylle sijna Þusundsiñum argare eñ Brest hiñs Maalhallta. Ecke helldur hañs ar Twngu-Hafted nockrum ad gaanga fram fyrer Nadar-Stooleñ, Sem Gud hefur sett i hañs Bloode, Hañ sem ecke upplauk sijnum Muñe, helldur eñ eitt Lamb til Slaatrunar leidt, Hañ gietur vorkient þessum sijnum Veslælingum, Er hañ sialfur skapad hefur, Giete hañ ecke odrum kieñt, Giete hañ ecke brwkad Maaled til ad tala Maale Eckiuñar og

hiñs Fodurlausa, þa gietur hañ þo lofad Gud, Hañ skilur Maal hañs, Sem adgreinde Tungurnar, og allar hefur giort af eiñe, Hañ gietur beded Gud sier til Hiaalpar og Mys-kunar, Hañ er noogu sniallur i Guds Eyrum, Sem bidur i Anda og Sañleika, Joh. 4. Eins vel aakalla hiner ungu Hrafnarner Gud og Svanureñ; Og hverutveggiu þessa fæder hañ, Þvi stendur nu eingum þesse Tungu-Brestur fyrer neinu Goodu hiaa hon-um, Sem bæde hefur skapad hiñ Maallausa, Og hiñ Vel-talande: Hin er Maal-Helltt-eñ meire og skadlegre, Þegar Meñ bruka Muñeñ til ad lasta Gud, Hañs Nafn, Hañs Ord, Raangfæra þad, og ad Haade hafa, Til ad skiema Naungañ, Til ad rægia hañ, liu-ga aa hañ Lijtum og Skomum þo saklausañ, Brixla honum, Leggia Haft aa Tungu sij-na þegar hañ a ad forsvara, Þegar Sañleikanum aa Vitne ad bera, og færa Hlutena til betre Vegar: Þetta er skielfelegt Maalleyse, Þad er ein Hofud-Skom i Guds Augli-te, Þarfara være þeim Mañe, ad hañs Tunga være fraa Rootum uppskoreñ, eñ ad bru-ka hana til slijkra Oodaada, Þvi svo segier Frelsareñ: Betra er ad þu halltur og Hand-arvane iñgaanger til Lijfsens, eñ ad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, Og verder i eylijfañ Elld kastadur, Matth. 5. Hver ed vijs er þeim sem temia sier Þögn þessa, og þessa Maal-Hellte, Og nema þeir ydrest af Hiarta, og laate af slijku Æde, Þa munu þeir eylijf-lega med honum verda, Er vier Ræge-Kall nefnum, Og hefur sitt Nafn af þvi, Ad hañ a-klagar Guds Utvallda Dag og Nott, Þar ellda þeir Saalum eñ eta Tungur, Elldur-eñ er noogur, Kostureñ er mikill, Blaastur DRottens upptendrar hañ svo sem añad Breñesteins-Flood, Esa. 30. Fraa hverium Oskopum hiñ goode Gud vardveite alla Christna Meñ: Eñ Þu Sem Allt Giorder Vel, Þu Sem Lietst Dausa Heyra Og Maallausa Tala, Vijk þeim afsijdis fraa Foolkenu, Fraa vondre Verolldu þessare, hv-erra Eyru ad allt ofmiog klæia epter heñar Glaum, Hverium eckert Maal lijkar, Nema þad sem heñe er þocknanlegt; Rek þaa ut af Babylon, DRotteñ miñ, Jafnvel med Svipu þijns Krossburdar, Svo ad ecke medtake þeir af Plaagum heñar: Snert Eyru vors Hiarta med Fijngre þijnum, Sem er þiñ Ande, svo ad vier hofum vora Lysting i Logmaale þijnu, Og uppleys Fiotur Tungu vorrar, svo ad vier tolum riett, Þad sem Gude sie til Lofs og Dijrdar, Hañs Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar, Eñ Andskot-ans Rijke, Og allre hañs Vone til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnare, fyrer þijna Forþienustu; Þier med Fodur, og Heilogum Anda, sie Valld og Kraptur, Rijke og Maattur, Æra og Dijrd, Fraa Eiñe Eylijfd til Añarar, AMEN.

## Þrettanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 10. Cap.

OG JEsus hañ snere sier til siña Læresveina, Og sagde þeim Eins-lega. Sæl eru þau Augu sem siaa þad, Hvad þier siaaed, Þvi ad eg seige ydur, Þad marger Spaameñ og Kongar villdu hafa sied hvad þier siaaed, Og saau þad ecke, Og ad heyra hvad

þier heyred og heyrdu þad eige. Og siaa, Ad nockur Løgvitringur stood upp, Freistade hañs og sagde: Meistare, Hvad skal eg giøra, So ad eg eigneſt Elliift Lijf? Eñ hañ sagde til hañs: Hvad er skrifad i Løgmaalenu? Hvorneñ les þu? Hañ svarade og sagde: Elska skalltu DROTTeñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, Og af allre Ondu þiñe, Og af øllum Mætte þijnum, Og af øllu Hugskote þijnu, Og þiñ Naunga sem sialfañ þig. JEſus sagde til hañs: Þu svarader riett, Gier þad og muntu lifa. Eñ hañ villde Riettlæta sialfan sig, og sagde til JEſu: Hver er þa miñ Naunge? JEſus svarade og sagde: Madur nockur foor fraa Jerusalem, ofañ til Jericho, og hrasade aa medal Ræningia, Hvorier ad ræntu hañ Klædum, og leinstrudu hañ Saarum, geingu sijdañ i burt, og lietu hañ þar epter haalfdaudañ liggia. Eñ so bar til, ad Kieñemadur nockur foor ofañ þañ sama Veg, Og er hañ leit hañ, gieck hañ fram̃ hiaa honum. Slijkt hid sama Leviteñ, Þa hañ kom nærre þeim Stad, og saa hañ, gieck hañ þar fram̃ hiaa. Eñ Samverskur Madur nockur foor um̃ fareñ Veg, Kom þar nærre honum, Og sem hañ saa hañ, Þa hrærdeſt hañ af Myskun vid hañ, og gieck ad honum, batt um̃ Saar hañs, hellte þar i Vidsmiøre og Vijne, og lagde hañ uppaa sin Eyk, og flutte til Herbergis, Gaf og Giætur ad honum. Eñ Aññars Dags þar epter þa hañ foor i burt, took hañ upp Tvo Peninga, og fieck Hws-Bwandanum, og sagde til hañs: Haf þu Gaat aa honum, Og hvad þu leggur meira wt, þad skal eg borga nær ad eg kiem aptur. Hver þeirra Þriggia sijneſt þier vera þess Naunge, sem hrasadur var aa medal Ræningia? Eñ hañ sagde: Sa sem giørde Myskunar-Verked aa honum. JEſus sagde til hañs: Far þu og giør slijkt hid sama.

## Exordium.

Hvilijk Oeining ad vered hafe millum Gydinga og Samarijskra Fordum, Þad vottar Heilog Ritning i nockrum Stødum. Hvernig bidur þu mig um̃ ad drecka, þar þu ert Gydingur, Sem er ein Samarisk Kona, sagde hun er talade vid Frelsarañ hiaa Jacobs Bruñe, Þvi ecke Samneyta Gydingar Samaritanum? Joh. 4. Segium vier ecke vel, ad þu ert Samverskur, og hefur Diøful, sogdu þeir Gudlastararner Fordum, Joh. 8. Og svo mikeð Hatur baaru Gydingar til þeirra, ad eiñ Heidinge mætte Gydingur giøraſt, eñ ecke Samariskur, Jafnvel þott þeir brwkudu marga Gydinga Sidu i Þionuſtu siñe, Svo sem eirn af þeirra Meiſturum skrif-

ar, Og sañast hier medal añars, Pad er Frelsareñ talade vid Phariseos, Ad þeir boñudu Moñunum iñ i Himna-Rijke; Eñ sialfer kiæmu þeir þar ecke, Matth. 23. Af þessu Iñbyrdis Hatre, Sem i þa Daga var millum Gydinga og Samariskra, tekur Frelsareñ hier Orsok til ad Sañfæra þeña Logvitring, sem Gudspialled umgietur, Og mæ hier rekia Spor hañs Guddoomlegrar Speke, svo vel, sem i øllu hañs Tale. Hefde hañ ecke teked hiñ Samariska til Dæmis um Myskunar-Verked, Helldur lated hañ vera þañ, sem hrasadur var medal Ræningia, Pa hefde þesse Gydingur sagt, Ad hañ ei hefde vered Næunge hiñs, Og Gydingureñ þar fyrer ei skylldugur til ad Lidsiña honum i neinu: Eñ fyrst hañ var Samaritan, sem Myskunsemena framde, Eñ hiñ var Jerusalems Madur, Pad er Gydingur, og mætte þvi Myskunar verdur þykia, Pa gat hiñ ecke fræ þvi geinged, ad hañ være hañs Næunge, Sem giorde gott Verk æ honum. Ecke æ þesse Epterlijking svo ad skiliast, ad sa sie einaste Næunge, Sem giorer eins og þesse Samaritan, Pad giorer Frelsareñ bert, Er hañ segier: Hver Laun hafed þier þess, ad þier elsked þæ, er ydur Elska, Giora ecke Tollheimtu-Meñ hid sama? Matth. 5. Helldur er þesse Meiningeñ: Fyrst þesse Samaritan giorde þetta vid eiñ Gyding, Pa far þu, Sem ert Gydingur, og gior slijkt hid sama vid eiñ Samaritan, Edur þiñ mesta Ovin, Pviad hver ein Mañeskia er þiñ Næunge, Nær honum æliggur. Ut af þessu Tale DRottens, vil eg taka mier Orsok til ad tala um Kiærleikañ, Og hvad laungt hañ eige ad næ. Vert þu i Verke med oss DRotteñ, Svo ad þetta vel luckest, AMEN.

## Utleggingeñ.

MArgar Dygder eru bodnar i heilagre Ritningu, og morgum hroosad, Po eingum meir eñ Kiærleikanum. Nu blijfa þesse Priw, Trweñ, Voneñ og Kiærleikureñ, eñ Kiærleikureñ er þo mestur af þessum, segier Paulus, 1. Cor. 13. Petta er stoor Vitnisburdur af honum, Er svo var kiært til Ætt-Maña siña Gydingaña, ad hañ æskte sier ad vera wtrekeñ fræ Christo fyrer þeirra Skulld, Rom. 9. Hañ mun meint hafa, Ef þad kyñe ad gagna þeim, og þad mogulegt være, Pvi sijdarst i hinum 8. Capitula; Segiest hañ vera þess Fullviss, ad eingeñ Hlutur mune gieta skiled sig vid Kiærleika Guds, Sem ad er i Christo JEsu: Eñ þvi hroosar hañ nu svo miog Kiærleikanum fram yfer Trwna, æn hverrar hañ þo segier, Ad Omogulegt sie Gude ad þocknast, Hebr. 1. Og ad fyrer hana verde Meñ hoolpner, æn Verka Logmælsins? Pad velldur þvi, ad Trweñ er daud æn Verkaña, segier Jacob Postule, Jac. 2. Hañ meinar æn Kiærleikans Verka sem þo af heñe framkoma, Pvi Trweñ sijyer Afl sitt hvad mest i þeim: Satt er þad, ad eingeñ verdur hoolpeñ æn þess, ad hañ trwe æ Gud, og hañs Christ, Og treyste þvi, ad hañ Endurkeyptur sie fyrer Guds Sonar Blood, Eñ þvi gietur sa ecke trwad, til Sæluhiælpar sier, sem er æn Kiærleikans; Paulus bijdur, ad Meñ skule reyna hvert þeir sieu i Trwñe; Eñ hvar med eiga þeir ad reyna þad, Nema med Kiærleikanum, æn hvers Trweñ er eingeñ Trw? Svo sem Kiærleikureñ gietur

ecke

ecke vered aan Trwareñar, Svo gietur ei Trweñ aan Kiærleikans vered, Pad vottar Paulus, 1. Tim. 1. Er hañ segier: Ender Logmaalsins er Kiærleikureñ af hreinu Hiarta og goodre Samvitsku, og Trw Hræsnislausre. Logmaaled er Omøgulegt upp ad fylla, Pad vottar Paall, Er hañ segier: Af Logmaalsins Verkum mun eckert Holld fyrer honum hoolped verda, Rom. 3. Po segier hañ aptur i sama Pistle: Sa ed elskar añañ, sa hefur Logmaaled uppfyllt, Rom. 13. Hvad ber til þessa, Christner Meñ? Ad þijsu svarade JEsus Logvitringnum, Er spurde hañ ad, hvert ed være hid mesta af øllum Boodordunum, Marc. 12. Hañ svarade honum: Hid ædsta allra Boodordaña er: Elska skalltu DRotteñ Gud þiñ af øllu Hiarta þijnu, Og af allre Saalu þiñe, Og af øllu Hugskote þijnu, Og af øllum Mætte þijnum, Petta er hid ædsta Boodord, Og Añad er þvi lijkt. Elska skalltu Naaunga þin, sem siaalfañ þig; Og i þessum Tveimur Boodordum, segier Lausnareñ, ad foolged sie allt Logmaaled og Spaameñerner, Matth. 22. Eñ svo sem oss er Omøgulegt allt Logmaaled upp ad fylla, Svo er oss had og længt uñ Megn froñ, ad fullnægia þessum Tveimur Boodordum, svo sem vera byriar, med vorum Tilverknade. Hvilijkur er þa sa Kiærleikureñ, Sem er Logmaalsins Uppfylling? Pad maa eg fyrst og fremst hier til svara, ad þad er hañs Guddoomlegur Kiærleike, Sem gaf sitt Lijf i Daudañ fyrer Syndarañ, Rom. 5. Svo hañ mætte lifa, 1. Joh. 4. Sw Elskañ, sem vard honum svo sterk sem Daudeñ, Og Vandlætingeñ svo hord sem Helvijted, Hin miklu Vorneñ kuñu ecke ad wtslockva þañ Kiærleika, Og ecke Bylgiurnar ad kiefia hañ, seger Brwdureñ i Lof-Kvædenu, Cap 8. Pesse Ouñrædelege Kiærleike og Brune Elskuñar; Hañ er fyrst og sijdarst Logmaalsens Uppfylling, Pad vottar Paulus, Er hañ skrifar, Rom. 8. Pad sem ad Logmaalenu var Omøgulegt, af þvi þad veiktest fyrer Hollded, Pad hefur Gud giort, Sendande siñ Son i Lijkingu syndugs Hollds, Og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu; Eñ þoott ad Giæska Guds hafe so yfergnæft til vor i Christo JEsu, Par fyrer vill hañ ecke ad vier skulum Hlutlauser vera af Kiærleikans Verkum Jñbyrdis medal vor, Pvi Johañes segier med berum Ordum: J þvi er Kiærleike Guds Auglijstur vid oss, ad hañ hefur giefed Saal sijna wt fyrer oss, Svo eigum og vier ad wtgiefa Saalena fyrer Brædurna, 1. Joh. 4. Elskañ til Naaungans er Omissande, Og aan heñar er eingeñ Riettnefndur Christeñ: Hver sem segiest elska Gud, eñ hatar siñ Broodur hañ er eiñ Liwgare, seger Johañes, Pvi ef hañ ei elskar siñ Broodur, þañ ed hañ sier, Hvernig maa hañ Gud elska, þañ ed hañ sier ecke? Og þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elskest Jñbyrdes, seger DRotteñ siaalfur, Joh. 13. Hier af vill þad fylgia, Ad hañ sem ecke elskar siñ Broodur, hañ er ecke Læresveiñ Christi; Sa sem ecke er hañs Læresveiñ, Hañ er ecke Christeñ, Og hañ sem ecke er Christeñ, Hañ hefur ecke Hlutdeild med honum: Med hverium þa? Med Vantrwudum mun hañ setia hañs Hlutskipte i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Breñesteine, Jaa, med Dioflenum og øllum hañs Arum, Peir ed hata bæde Gud og Meñ: J einu Orde ad segia: Par er ginkis Goods Von aa heim Mañe,

J hverium

J hverium Kiærleikurenn ecke biyr; Jafnvel þoott hann siineſt giora nockud Gott, Kannſkie til ad firra ſig Wijtum, Til Fordilldar ſier, Og til ad þyggia Hroos af Mønnum, Eins og Pharisæi giordu Olmuſur ſijnar: Þar umm tekur Paulus Tvijmælenn af, Er hann ſeger, 1. Cor. 13. Þoott eg Bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Fatæka, Enn hefde ecke Kiærleikann, Þa gagnade mier þad ecke; Og hier þvert a moote; Hver ſem Kiærleikann i ſier hefur bliifanda, Hann er til allra goodra Verka hæfur. Svo ſegier Johannes: Gud er Kiærleikurenn, Og ſa ſem bliifur i Kiærleikanum, Hann bliifur i Gude, og Gud i honum, 1. Joh. 4. Þetta hefur ſa Guds Madur ꝏn Efa lært af ſijnum Meiſtara, hver hann elſkade, Þvi ſvo ſeger hann Bleſſadur hia ſama Gudſpiallamanne, Cap. 15. Sa ſem bliifur i mier fyrer Kiærleikann, og eg i honum, Hann ber mikenn Avoxt, Þvi ann mijn gieted þier eckert. Siaed hverſu Omogulegt er ꝏn Kiærleikans Gude ad þocknaſt, Og hverſu ad hann er Saal allra Dygda og Mannkoſta, Þvi ef ſa bliifur i Gude, Sem i Kiærleikanum bliifur, ſvo ſem ſtrax var ſagt, Þa eru hanns Verk i Gude giord; Þvi ſeger og Paulus, Col. 3. Umm alla Hlute framm þa hafed Kiærleikann, Þvi þad er Band Fullkomlegleikans. An Trwarennar er Omogulegt Gude ad þocknaſt, Sem adur er ſagt: Enn ſonn Trw er alldrei ann Kiærleikans, Þvi ma eg ſvo kalla, ad þau ſieu eins og Fader og Mooder allra þeirra Athafna, Sem nockud eiga fyrer Gude ad gyllda.

Eſajas ſkrifar ſvo umm Gud, Ad Elldur hanns ſie i Zion, Og hanns Ofn i Jeruſalem, Eſa. 31. Teiknande þar med Guds Þioonuſtu i þeim Heilaga Stad, Hvar enn Allra Hærſte hafde ſett Minning ſijns Nafns, Enn ſw Dijrkan hefur Enda teked, Sool Riett-læteſins hefur Skuggann afmaad, Zion er Eydelogd, Jeruſalem er uppbrend, Og Gyd-ingum ſitt Hws i Eyde lated, Matth. 23. Þvi kalla eg ad nu bwe Guds Elldur, Og hanns Ofn i Nya Teſtamenteſins Muſtere, Sem er Riett-Chriſtens Manns Hiarta, hvar Gud hviileſt yfer Cherubim, yfer þeim Naadar-Stoolnum er hann frammſett hefur i hanns eigenn Bloode, Rom. 3. J einum glooande Anda, J einne lifande Trw, ſem verkar med Kiærleikanum, Þvi hun gyllder fyrer Gude i Chriſto, Enn hverke Ummſkurn nie Yferhwd, Gal. 5. J Elſkunne til Guds og Naungans, Þad kalla eg hinn Evarande Elld, og ſij-fellt Offur; Þad nefne eg Guds Ofn i Mannſens Hiarta. Þeſſe Hofud-Dygd, Kiær-leikurenn, er nu i morgu foolgenn, Og alla Ummgeingne vora upptendrar hann til hinns Goo-da, Ecke ſijdur enn Twngann til hinns Jlla, Nær hun er upptendrud af Helvijte, ſvo ſem Ja-cob ad Orde kiemſt, Jac. 3. Enn Paulus hefur i ſtuttu Maale uppteiknad alla hanns Edlis-Hattu ſvo merkelega, ad þad verdur ecke af ſyndugre Twngu betur giort, Svo ſkrifar hann, 1. Cor. 13. Kiærleikurenn er Þolennmoodur, ſegier hann: Alla Hlute þo-la Menn fyrer þad, ſem þeir elſka. Hvad vinna Menn ecke fyrer Mune Veralldar þeſſar-ar, Fyrer Audenn, Fyrer Metordenn, Til þeſs, ad faa Hefnd yfer Ovinum ſijnum? Þad ſama giorer Kiærleikurenn vid Gud og Naungann, Guds vegna. Hann er Goodgiarn, Eckert ma hann Aumt ſiaa; Hann er ad ſijnu Leite eins lyndur og Gud, Af hverium hann er, 1. Joh. 4. Hann giorer Gott ef hann gietur bæde Vinum og Ovinum, Matth. 5.

Kiærleik-

Kiærleikureñ Osundar ecke, Pad er aa moote hañs Natturu, ad sia Offsoonum yfer nockurs Mañs Velgeingne, Sem ollum vill vel. Kiærleikureñ giorer ei Illmañlega, Pad er, med odru Orde ad segia, Hreckvijslega; Hañ geymer eingañ vondañ Mañ, Ei talar hañ añad med Muñenum, Eñ hañ hefur soolged i Hiartanu. Hañ þytur ecke upp; Hañ er ecke Drambsamur, Pvi saa sem elskar eiñ, þañ vyrder hañ, eñ Kiærleikureñ elskar alla, Svo miked sem elska maa med Riettu. Hañ er ecke Osidsamur, Par er valla fraa ad segia hvilijks Ohocka og Mañ-Haturs ad Vanskickuneñ aflar i Heimenum, og utvortis Osider, Jafnvel þoott sumum Moñum þyke lijted i Kurteisena spuñed, Samt er hun þo optast Dygdaña Forunautur, Og hun prijder þær, Eins og fagur Bwningur Mañsens Allt, Petta vill ecke Kiærleikureñ sig vanta laata, Svo ad eingum giefe hañ neina Hneixlan. Hañ leitar ecke epter þvi sem hañs er, Pvi hañ leitar Almeñelegs Gagns hvad mest, Og ecke svo miog sijns eigeñ. Hañ er ecke Pronglyndur, Verde honum þad, ad hañ reidest, Pa lætur hañ þo ecke Soolena undergaanga sijna Reide: Hañ þeyñker ecke Illt, Ecke aa hiaa honum heima þad gamla Ordtæke, Margur ætlar mig sig, og maatulega dyggvañ, Nie hitt, ad Illur veit hvar Odyggur situr: Af þvi hañ ætlar eingum Illt, Pa dylst hañ vid i fremstu Log, ad Hreckvijseñ mune ætla sier þad. Hañ ber allt; Allt hvad honum er uppaalagt, Pad ber hañ eins og Maattar-Trie i Hwsum, Pau bera allt þad sem aa þau er lagt, Hvadañ og Maalshaattur þesse dreigeñ er; Svo rijs hañ og under ollu, sem hañ maa umbera, Guds og þeirra vegna, sem hañ er hvad mest skylldugur. Hañ trwer ollu, Hañ vill helldur trwa þvi, sem honum er Saklaust ad trwa, helldur eñ ad væna eiñ Lijge ad Naudsynialausu, Edur Ofyrersyniu. Hañ vonar allt, Hañ orvænter ecke um neiñ, ad ei kuñe hañ ad betra sig, Poott Ovænlegt meige um hañ þykia; Olijkur þeim sem ecke vilia neina Tilraun giora vid eiñ, Sem af einhverre Hrosun verdur yfersteigeñ, Eins og Gud sie ecke maattugur ad reisa hañ, og þess vegna lijdur hañ allt, Hañ sparar eckert Polgiæde til ad bijda epter Betran þeirra, Par fyrer talar Salomon vijslega er hañ segier, Prov. 10. Hatred uppvekur Prætur, Eñ Kiærleikureñ hylur Misgiordernar. Hvad er nu lijkara Gude eñ þetta Hiartalag? Og þesser eru nu Kiæleikans Avexter, Sem upp eru talder; Eñ sier i Lage vill Frelsareñ hafa kieñt med þessare Epterlijkingu Mysk unsemena og Goodgyrnena vid sierhvern þañ sem Naudstaddur er, Pvi hañ svarar hinum Skriftlærda uppaa Spurningu sijna, Hver þar være hañs Naunge; Pad er aadur hier ad framan sijnt, Hversu ad Gydingar og Samarisker hafe hatast aa Iñbyrdis, og hveruger meintu adra sijna Naunga ad vera; Eñ DRotteñ snart hier nockud biturt vid Kaun hiña Skriftlærdu og Phariseaña, þar ed hañ tekur til Dæmis i Epterlijkinguñe Presteñ og Levitañ; Pesser heilogu Meñ, sialfer Gydingar, Peir geingu fram hiaa Gydingenum, þar hañ laa svo illa fareñ sem i Gudspiallenu segier. Eñ Fiandmadur hañs, Hverium einkis Gydings Auga munde Myskunad hafa, Hañ giorde Myskunar-Verk aa honum. Hañ Saa Aumur A Honum, segier Texteñ: Fyrst vaknade Kiærleikureñ i Hiart-

anu, Svo eigum vier og Lynder ad vera, Þvi nema ad Goodgiorder vorar framkome af Gnægd Hiartans, Þa eru þær Onijtar, Þad er aadur vottad af Pauls Ordum, Er hann segier, 1. Cor. 13. Þoott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Faatæka, Og hefde ecke Kiærleikann, Þa gagnade mier þad ecke. Og aptur bijdur hann, ad Menn skule giora Gott, Ecke af Naudung, helldur af fwsum Huga; Enn hann liet Goodgyrne sijna ecke alleina vera foolgna i Medaumkuneñe, Helldur brautst hun wt med Verkunum. Hann Batt Hanns Saar, Hellte Þar J Vijne Og Vidsmiore, Med odru fleira sem Textenn upptelur, Og ei þarf framar ad uppreikna? Enn i einu Orde vil eg þad segia: Eingenn Mooder hefde kunnad betur ad giora vid Barn sitt: Eingenn Fader vid sinn einka Son, Eingenn Brooder vid annann, Helldur enn þesse Utlendingur giorde vid Ovin sinn i slijku Tilfelle. Far þu nu, Christenn Madur, Og gior slijkt hid sama, Sem Heidingie þesse giorde: Elska ecke med Orde og Tungu, Helldur med Verke og Sannleika, 1. Joh. 3. Nær þu sier Broodur edur Systur nakta, Og hafa Skort aa Daglegre Næringu, Þa laat ecke þinn Kiærleika vera þar i foolgenn, ad þu segier: Lifed heil, Vermed ydur og metted ydur, Enn giefed þeim þo ecke hvad Lijkamans Naudþurft tilheyrer, Jac. 2. Þetta er Hræsne Eintoom, Og þad mun eins lijted gagna Saalu þiñe, nær þu skallt fara eins nakenn i burt ur Heimenum, Og þu i hann komst, Svo sem ad þijn Fagurmæle gognudu hinum Nakta og Hwngrada, aa medann þu hafder Audlegd Heimsens: Þad er merkelegt, ad aa hinum Effsta Deige, þegar Reikningurenn skal halldast, Þa verdur oss þesse Pooftur fier i Lage fyrerlagdur, Hvert Menn hafa mettad hinn Hwngrada, Giefed hinum Þyrsta ad drecka, Hijst hinn Framanda, Klædt hinn Nakta, vitiad Siwkra, edur þeirra sem voru i Myrkvastofu, Svo sem Frelsarenn kienner oss sialfur hiaa Matth 25. Cap. Og er þad ecke noog ad vitia þeirra, Þad er eins gott og ad segia vid hinn Nakta, Klæd þig, Og vid hinn Hwngrada, Mettast, enn giefa honum þo eckert. Vor Vitian aa i þvi ad vera foolgenn, ad Hugsvala þeim, Hiaalpa þeim med Raad og Daad, Annars eru Menn ecke betre enn Presturenn og Levitenn; Þeir saau ad sonnu hinn auma Mann, Er hrasadur var medal Ræningia, Enn geingu framm hiaa honum. Jaa, Vier eigum ad hiaalpa þessum Krossberendum, Jafnvel med Skada vorum, og þott vier meigum nockurs i þarfnast. Hier stendur i Gudspiallenu, ad Samaritanenn hafe lagt hinn saara Mann uppaa sinn Eyk. Lijkast er hann hafe laated hann sitia aa Dijrenu enn geinged sialfur; Þvi i Textanum stendur, ad hann hafe sett hann uppaa sinn eigenn Eyk, Jaa, ef vier ecke berum Kunnaattu edur Vitsmune til ad hiaalpa þeim sialfer, Þa eigum vier ecke ad spara til þess Fe-Mune vora, ad þeim meige hoolped verda; Þvi ef Johannes vill ad vier skulum giefa Lijfed wt fyrer Brædurna, Þa er þad vijst, Ad hann ecke vill ad vier þyrma skulum hinum Ranglaata Mammon, Er oss mun þo yfergiefa i Daudanum, Þvi þad stendur fast, Sem Lausnarenn sagde: Ad alltijd er Lijfed meira verdt enn Fædslann, og Lijkamenn meir enn Klædnadurenn, og meira hofum vier ecke af ollu þvi vier eigum, og aa þetta ecke ad giora svo naumt, ad þeir sieu litlu nær, Sem vid þurfa. Ecke var þesse goode Samaritan aanægdur þar med, ad koma

þessum

þessum Vesæling til Maña-Bygda, helldur Gaf Hañ Giætur Ad Honum; Og Uñ Morguneñ Er Hañ Reiste, Feck Hañ Hwsbondanum Tvo Peninga, Og Sagde: Haf Þu Gaat A Honum, Og Hvad Þu Leggur Meira Ut, Þad Skal Eg Borga, Nær Eg Kiem Aptur. O! hvad morgum, Þeim er sig Christeñ nefner, gietur Utlendingur þesse Kiñroda giort aa þessum verstu og sijdurstu Tijmum, uñ hverja DRotteñ hefur talad hiña sönu Spaa, ad sokum þess, ad Raanglæted vex, Þa mune margra Kiærleike koolna, Matth. 24. Eñ þessa Goodvilld eigum vier ecke alleina ad audsyna Naaungum vorum edur Kuñingium, Þad sie eg berlega af þvi, Er Frelsareñ sagde vid þañ, Er honum boded hafde, Luc. 14. Nær þu helldur Middags-Verd edur Kvolld-Maaltijd, þa biod ei Vinum þijnum, Edur Bræðrum þijnum, Edur Ættmoñum þijnum, Edur rijkum Naagroñum, Svo ad þeir biode þier aptur einhvern Tijma, Og þad verde þier Endurgollded; Helldur, nær þu giorer Heimbod, þa biood Faatækum, Vonudum, Holltum og Blindum, Og muntu sæll verda, Þvi þeir hafa þier ecke aptur ad giefa, Þvi þad skal þier aptur gollded verda i Upprisu Riettlaatra, Þar fyrer, Ef þu Christeñ Madur ert, Ef þu villt i þeirre Upprisu Hlutdeilld hafa, Þa siaa til, ad þu naaer Hlutskipte i hiñe Fyrre, Svo þu verder sæll, Og fel þig ecke fyrer Hollde þijnu, Þad er, Fyrer þijnum Naaunga, Hver sem hellst hañ er, og nær þu sier eiñ Naudstaddañ, er þu hiaalpad gietur, Þa laat svo sem hid sijdarsta Lwdurs-Hliood kvede fyrer Eyrum þier, og tak þad fyrer Bod fra Gude, til ad miña þig aa, ad giora Skylldu þijna med Kiærleikans Verke vid hiñ Naudstadda: Laat eingañ vera undañ skileñ, þo þier Obeckur sie; Gleimed ecke Giestrisneñe, seger Paall, Þvi fyrer hana hafa sumer Einglana hyst Ovitande, Hebr. 13. Hañ meinar aan Efa Abraham, Gen. 18. Oa vard honum þad ad mikille Blessan; Þu veist ecke hvorium Guds Þock er ad giora, Eñ þad veistu, ad hañ þacka vill allt þad, sem i hañs Nafne giort og giefed er.

Framande var eg, Og þier hystud mig, seger Doomare alls Holldz. Þu skallt ecke giora Ofrijke hinum Framande, Þvi þu varst Framande i Ægyptalande, segier Gud, Exod. 22. Þu skallt og hugsa þad, ad þu ert Framande i hiñe vondu Ægypto, Verolldu þessare, I þeirre Leyr-Velltuñe, Þvi Prældooms-Hwsenu: I hiñe eilijfu Canaan er þitt Fodur Land, Þaangad aattu iñ ad gaanga til hañs Hvijldar, Þaangad aa þig ad leida, Ecke Jesus Sonur Nun, helldur JEsus Sonur Davids; Forsmaa ecke þa, Sem hañ hefur med sijnu Bloode Endurleyst, Er sialfur Framande var medal siña Eigeñ, Og hvad miñst vordtur aa siñe Fooftur-Jordu fyrer þijna Skulld, sem varst Utlægur wr Himnarijke, Og svo þu viter, ad þad sie ecke noog, ad giora hinum Framanda, edur Naudstadda eckert Mein, Þa leggur DRotteñ sialfur best wt sijn eigeñ Ord, þar hañ segier, Lev. 19. Svo sem hiñ Iñlende, svo skal Utlendingureñ vera, saa ed reiser uñ hiaa þier; Og eñ framar: Þu skallt ecke upptaka Leifar Kornskieru þiñar: Þu skallt laata þær epter hinum Faatæka. Og hinum Utlenda, Levit. 23. Jaa, Þier skulud eiska hiñ Framanda, Þvi þier vorud Framande i Ægyptalande, segier hiñ Alvalde Konungur,

ur, Devt. 10. Ecke eru undañ þessare Skylldu Ovíner þijner skilder, Guds Barn, Helldur i heñe tilskilder, Svo segier DRotteñ, Exod. 23. Ef þu fiñur Naut Ovinar þijns, edur Asna Villuraa fande, Þa skalltu endelega færa þad til hañs. Villenu DRotteñ ad eiñ skule vera sijnum Ovin Skulldbundeñ i svo litlum Hlut; Hvad þa ecke, ef honum meira aaliggur, Og þott eckert være añad, sem kyñe ad hræra oss til ad giæta þessarar Skylldu vorrar, Þa er hid algiørda og alkuñuga Logmaal Christi, Er ritad stendur hiaa Matth. Cap. 5. Elsked Ovine ydar; Blessed þa er ydur formæla, Og bidied fyrer þeim ed smaana ydur og Offskia. Til hvers? Svo ad þier siend Born Fødur ydar, sem aa Himnum er, Hver ed lætur Sool sijna uppreña yfer Riettlaata og Ranglaata, Og rigna yfer Vonda og Gooda. JEsus maatte hier diarft uñ tala, Hañ var i Guds Mynd, Phil. 2. Jaa, Sialfur Gud, Eilijfur Fader og Fridar-Høfdinge, Esa. 9. Þo Lijtelækkade hañ sialfañ sig, Takande Þioons-Mynd, vordeñ hlijdugur allt til Daudans, Jaa, allt til Krossens Dauda, Sijdañ er hañ uppfareñ i Hæderna, og hefur Moñunum Gaafur giefed: Eñ hvilijkar Gaafur? Naad Guds og Vingan. Syndaña Fyrergiefning, H. Anda og eilijft Lijf. Hverium hefur hañ þessar Gaafur sendt? Ovinum sijnum, Þeim sem hañ Hæddu, Fiotrudu, Hrødstrycktu, med Þyrnum Koronudu, Og aa Gaalgañ uppheingdu, Ecke einasta þeim, Er stoodu ad Verkenu, helldur og øllum ødrum, hverra Synder ad Dijrdareñar Hertoga Krossfest hafa, Þvi fyrer alla er hañ daaeñ, Og øllum er Guds Heilsusamleg Naad frambodeñ: Þetta giørde hañ, sem er Lioome Fødursins Dijrdar, þegar allt Mañkyn var statt i hinu herfelegasta Volæde. Skamastu þijn þar fyrer, Syndareñ, Nær þu sier Ovin þiñ Hungra, ad giefa honum ecke ad eta, edur Þyrsta, og giefa honum ecke ad drecka, og nema þu svo giører, þa þeink alldrei til þess, ad þu siert kvittur uñ Synder þijnar fyrer Gude, Þvi valla hefur Guds Ande i Nya Testamentenu lagt svo rijkt aa vid Meñena uñ nockurn Hlut, Sem þeña. Aller Kollum vier Gud vorn HErra, eñ ef hañ er vor HErra, Hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Hvar er Hlijdne su, Er vier eigum honum ad aud syna? Þvi kalled þier mig HErra, Og giøred þo ecke þa Hlute, er eg bid? Segier Christur, Luc. 6. Hañs Bodord eru ecke þung, Segier Johañes, Eñ eg vil segia, ad þetta er eitt af þeim liettustu, af þeim audvelldustu, fyrer þañ sem Hugleider hvad lijtel sie Naaungans Misgiørd vid sig, Hiaa þvi sem hañ sialfur hefur giort Gude i moot, og hversu þad er eckert, sem hañ gietur Lidsiñt Broodur sijnum, hiaa øllu þvi goodu sem Gud hefur honum giørt, Og tekur hañ þad þo ecke af sijnu, Helldur hañs, Sem aa allar Eigur. DROtteñ wtslock þu i oss Baal Illkuñar, og Heiptrækneñar, Eñ kveik i oss Elskuna til þijn og Naaungans; Þier sie Lof Dijrd og Heidur, uñ Allder, Amen.

# Fiortanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 17. Cap.

J Þañ

A Þañ Tijma. Og þad skiede so þa ed JEsus gieck til Jerusalem, ad hañ ferdadest i giegnum midia Samariam og Galilæam. Eñ sem hañ gieck iñ i nockurt Kauptwn, mættu honum Tiju Lijkþraaer Meñ, Hvørier ad stoodu laangt fraa, Hoofu upp sijnar Radder, og søgdu: JEsu goode Meistare, Myskuna þu oss. Eñ sem hañ leit þaa, sagde hañ til þeirra: Fared þier og sijned ydur Kieñemoñunum. Og þad skiede so, þa er þeir geingu þadañ, ad þeir urdu hreiner. Eñ eirn wt af þeim, Nær hañ saa þad, ad hañ var Heilbrigdur vordeñ, snere hañ aptur, lofande Gud med haarre Raust, fiell frañ aa sijna Asioonu fyrer Fætur JEsu, Giørande honum Þacker, Og þesse var Samverskur. Eñ JEsus svarade og sagde: Hvort voru ecke Tiju hreinsader? Eñ hvar eru hiner Niju? Fundust aungver þeir aptursnere, ad giefa Gude Dijrdena, Nema þesse Utlendingur? Og hañ sagde til hañs: Statt upp og far hiedañ, Þvíad þijn Trw giørde þig Hiaalplegañ.

## Exordium.

HVersu stoor ad sie Mismunur Guds og Maña, Þad kañ eingeñ Twnga wt ad skijra, Og eingeñ Hugur ad skilia: Hver Maña veit hvad Mañsins er, Nema Mansins Ande sem i honum er? Svo og hvad Guds er, veit eingeñ, nema Guds Ande, segier Paulus, 1. Cor 2. Eñ þo ad vor Naatturlegur Skilningur nææ skamt til þess, ad rañsaka Guds Underdiwp, Þa kyñum vier þo a þessum Mismun nockud skijrare Grein ad giøra, ef vier legdum meire Hug a, ad samañbera hañs Almætte og vorn Vanmaatt, Hañs Riettlæte og vort Raanglæte, Hañs Vijsdoom og Faakiænsku vora. Eñ þo allra hellst hañs Þoleñmæde og vora Þvermoodsku, Hañs Giædsku og vort Oþacklæte. Hañs Almætte þeckium vier ecke svo sem þad er. Sitt Riettlæte sijner hañ oss ecke svo opt, Nema i Giædskuñe, Þvi velldur Rijkdoomur hañs Þoleñmædis: Hañs Vijsdoom skynium vier ecke, Eñ hañs Laanglundar Gied, Hañs Giæsku og Myskunseme meigum vier hvad best þeckia, Þvi hun er nij og fersk yfer oss aa hverium Morgne, Jordeñ er full af heñe, aa hverre vier skrijdum, Synduger Ormar, og meigum Daglega rekia þar hañs Spor, Sem driwpa af Feite. Eg skal ecke fullkomna mijna breñande Reide, Eg skal ecke tortijna framar Ephraim, Þvi eg em Gud og ecke Madur, segier Giæskañ sialf fyrer Muñ Hoseæ Spaamañs, Cap. 11. Og þo vill Syndareñ ecke kañast vid þessa Guddoomlega Elsku, Myskunseme og Þoleñmæde, Jafnvel þoott hañ sie Madur, Þad er, Ein Gufa, Ein Vatns-Boola, og ecke Gud, Og ecke þacka honum edur kañast vid hañs Fodurlega Giæsku, margur hver, Jaa, Gud giæfe ad færre væru eñ fleire. Dæme hier uppaa siaaum vier i Textanum, aa þess-

um Tiju Lijkþrau Moñum, sem hreinsader voru, Hverra Eiñ alleina aptursnere, og gaf Gude Dijrdena, Eñ hiner Niju gleymdu þvi ad Bragde er giort var. Eg vil skipta Gudspiallenu i Tvo Hlute, Og Hugleida. 1. Opacklæte hiña Niju. 2. Packlæte hiñs Eina. JESU Goode Meistare, Hiaalpa oss hier til med Krapte þijns Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Eke er Trweñ allra, segier Paulus, 2. Thess. 3. Øllum er hun þo framboden sem Orded heyra, Þvi Heilsusamleg Guds Naad er Opeñber vorden øllum Moñum, segier Postuleñ aptur, Tit. 2. Er hañ talar um̃ Christne-Boded, J hveriu ad Trweñ er eitt Hofud-Sticke; Margur trwer um̃ Stundar-Saker, Eñ aa Freistingar-Tijmanum, þa fellur hañ þar fraa; svo sem Lausnareñ kieñer hiaa Lucam, Cap. 8. Ad vijsu er þad satt, ad Freisting merker optlega i Ritninguñe þær Hormungar, Er Gud lætur Bornum sijnum mæta, Til ad reyna þau: Ydur hefur ecke hendt nema Mañleg Freistne, segier Paulus, Pad er Mootlæte þad sem Moñum er bærelegt: Svo nefner og Jacob Mootlæte Guds Barna, Cap. 1. Eñ Gud Freistar Mañsens aa Stundum med Epterlæte sijnu: Þegar Gud liet David allt ad Oskum gaanga, Pa vard hañ svo freistadur, ad hañ talde Foolked, 2. Sam. 24. Þegar Ezechias Konungur hafde Lucku i øllu sijnu Verke, Pa freistadest hañ til ad sijna Babylons Hofdingia Sende-Moñum Fiaar-Sioodu sijna og Gersemar, 2. Chron. 32. Svo ad þad maa allt syndugt Hold jaata, Ad ecke er miñe Freistinga Von i Medlætenu eñ i Mootlætenu, Svo sem Mootgaangureñ stepper suñum i Orvænting, svo þurfa og sterk Bein til ad þola gooda Daga. Morgum hefur Velgeingneñ komed til Ohoofs, Til Ofmetnadar, Til Opacklætes vid Gud, Og jafnvel til Afgudadijrkunar, Jaa, þeim og sem Gud hafa aadur vel þeckt, og hañ wr Duptenu hafed hefur, eñ sett til mikillrar Tignar, Hvar um̃ lioost Vitne bera Jeroboam og Jehu Jsraels Konungar, sem ecke voru Kongborner, Eñ Gud þo upphoof aa Tignar-Stool Drottna siña. Ecke verdur þvi neitad, ad aller þesser Lijkþraau Meñ, þeir hafa i Fyrstuñe trwad aa Christ, Pvi upphoofu þeir Radder sijnar, og sogdu: JEsu MEistare Myskuna Pu Oss, Pad hefdu þeir ei giort, Nema þeir hefdu heyrt Rikted af DRottne, Og treyst þvi, ad med honum være Guddoomlegur Kraptur: Er eg Gud sa ed kuñe ad deyda edur lijfga, sagde Jsraels Konungur, þegar Konungureñ af Syria sende Naaman hiñ Syrlendska til hañs, Pad eg giete hreinsad þeña Mañ af siñe Lijkþraa, 2. Reg. 5. Hvar af audsært er, ad þad hefur vered ad jofnu lagt i þaa Daga, ad lækna þesshaattar Siwkdoom, og ad uppvekia af Daudum, Sem er Guds alleina, svo sem David vottar, Og er þvi audvitad, ad þesser veiku Meñ hafe til lagt Frelsaranum nockurskonar Guddoomlegañ Heidur, Pott ei hafe þeir vered Sañfroodir um̃ hañs Persoonu, Samt dugde þesse Trw til Lijkamans Lækningar. DRotteñ læknade þaa ecke strax, Eins og hiñ Lijkþraa, er gietur um̃ hiaa Matth. 8. Cap. Vid hvern hañ snart og sagde; Eg vil vertu hreirn; Helldur sagde hañ alleina: Fared Og Sijned

Ydur

Ydur Kiennemonnunum, Og ættu þeir þo længa Leid til þeirra wr Samaria upp til Jerusalem, Enn æ Leidenne hafa þeir hreinsader vorded, Þvi Gudspialled seger: Og Pad Skiede Er Þeir Voru A Ferdenne, Ad Þeir Hreinsudust. Þetta sijner Trw þeirra, Ad þeir efudust ecke umm, ad giora Frelsarans Skipan, Helldur i Trauste hanns Orda byriudu Ferd sijna til Kiennemannanna, Sem epter Logmaalenu ættu ad dæma umm, hvert þeir væru hreiner edur ei. Olijker voru þeir i þessu morgum þeim, er ei vilia Gude treysta, verde þeir ecke strax Bænheyrder, umm þær Hlute er þeir þurfa þykiast. Vantrwenn segier: Þoott Gud giorde Glugga æ Himenenn, þa kann ecke þetta ad skie, Hun skijtur sier inn jafnvel hiæ Guds Bornum, og Predikar; Hvar faaum vier Braud hier i Eyde-Morku svo ad þesser nesyte, Marc. 8. Hvad tijtt hender oss þvillijkt nær oss þyker eitt-hvad Olijklegt? Og er margur af oss i þessu miog Olijkur þessum Lijkþraa Monnum: Enn i hinu erum vier þeim nærsta lijker, Ad þegar DRottens Almættuga Hond hefur wtrykt oss af Neydenne, Þa erum vier þess svo skammminnuger, Og hanns Otte er valla leingur hiæ oss enn Snioorenn æ Steinunum, Þegar Regned Ofann kiemur, svo sem Spaa-Madurenn segier: Og hvad er tijdara enn þad, Ad nær Angistenn þreynger ad oss, ad vier þa kollum til DRottens, Þa er vort Sinne til hanns, svo sem Esajas ad Orde klemst, Cap. 26. Hver er sa, Nær hann siwkur er, Edur af einhverium Lijkamans Meinum plaag adur, ad ecke sie hann reidubwenn til ad giefa Gude Handskrift sijna, ef hann mætte, uppa Betran Lijfernessins, Og ad hann vilie laata af ollum þeim Syndum, Er hann veit og vidkannast, ad hann hafe hinn gooda Gud stygdann med? Þetta er ad vijsu Alvara flestra Manna, Þvi einginn hygg eg ad vilie gabba Gud, Þegar svo ærsiendur: Asetningurenn er ad sonnu goodur, Og geingur þad fyrer fullt, Ef Gud lætur einn burtkallast i Siwkdoomenum; Enn þa er Esudanna vant Þegar Heited er komed, seger Ordtæked, Hverneg þeim sie vared æ Stundum, Þad siaaum vier af þeim morgum sem hætt hafa leiged, Enn Guds Þolennmæde og Giæska hefur aptur æ Fætur reist, Ad þeir lifa eingu betur sijdann enn adur, Nema midur sie a Stundum, Og laata jafnvel ecke af þeim Lostum, er vered hafa Orsok til Meinlætis þeirra, edur annars Mootgaangs, Og brwka svo Mykun Guds til Eflingar Syndanna, Svo laangt er fræ þvi, ad þeir laate Rijkdoom hanns Þolennmædes draga sig til Yðrunar, Rom. 2.

Menn hafa æ medal vor eina Skrok-Sogu umm Barn nockurt, þad er fiell i Pitt, Og er þad meinte sier Dauda-Von, Beidde þad Gud ad hiaalpa sier til Lijfsens, Enn er þad slapp wr Dijkenu upp æ Backann, Þa segier Aefenntijred, ad Barned hafe sagt: Ecke þarftu, Eg gat; Einfalldleg er Saga þesse, enn þo er hun mætuleg til þess, Og þar til mun hun diktud vera, ad giora þeim Kinn-Roda, sem eru Born i Skynsemenne, Enn ecke i Hreckvijsenne, 1. Cor. 14. Og leita Guds alleina nær þeim æliggur; Enn ønadhvert þacka sier, Edur gialda honum litlar Þacker, nær þeir sloppner eru wr Vandrædunum: Þetta er Almennara, enn Vitne þurfe til ad leida, Jafnvel hiæ þeim, Sem hvad best ættu ad vita sijns HErra Vilia, Luc. 12. Og odrum ad vera til Epterdæmis, Er þo mættu Ottast

fyrer

fyrer hinum flestu Slögum, Nær Mæler Syndanā er uppfylltur. Til eru þeir sem meina, ad Prestarner hafe umsnwed þessum Niju Gydingum, og taled þeim Trw þar um, ad JEsus hefde ei giort Jardteikn þessa af Guds Krapte, Og þvi hafe þeir ecke aptur horfed. Alls var ad sönu Jlls Von af þeim i þaa Daga: Sierdeilis þegar Christur atte Hlutenn ad, Og var ecke Olijkt þvi er hann matte heyra, Ad fyrer Beelzebub ræke hann wt Dioflana, Luc. 11. Pad gietur og skied, ad þeir hafe talad þetta fyrer Gydingum, Londum sijnum, Enn ecke hyrdt svo miog unn hinn wtlenda Mann: Peim hefur þad i eingu Rwme leiged, þoott hann snere aptur til hans, Er þeir kolludu Samariskann og hefde Diofulenn, Joh. 8. Enn Gaatu þessarar er eingenn Porf; Hold og Blood er noogu bannvænt til ad vekia i oss Syndena, og ad letia oss til ad giora Gude Packer fyrer Myskun sijna, Er þo Daglega upprennur yfer oss Ranglaatum aa hverium Morgne. A medann þesser veiku Menn laau under Krossenum, Pa voru þeir gooder Viner, og aller i einum Flocke, Enn þegar DRottenn hafde giefed þeim ollum Heilsuna aptur, Pa konnust hiner Niju vid þad, ad þeir voru Gydingar, Enn hinn Samverskur, Pvi ecke villdu þeir verda honum samferda i Apturhvarfenu til Frelsarans; Pannveg er vort Packlæte vid Gud, Er hvad mest hefur boded ad dijrka sig med Kiærleikanum, Myskunsemenne og Eindrægnenne. Pegar Skeinkiare Pharaonis hefur naad aptur sijns Herra Gunst, Pa gleymer hann Joseph, Pvi hann var Utlendur; Pegar Skullda Prioorurenn, sem atte 10000. Pund ad gialldá, Pegar hann er wtgeingenn fraa Hws-Fodurnum, sem gaf honum upp alla Skulldena, Pa griipur hann fyrer Kverkar sijnum Verka-Naut, er honum var miklu minna skylldugur. Svo geingur þad til fyrer morgum af oss; Hafe Gud upphafed einn Vesæling til Heidurs, til Rijkdooms, til Embættis, Pa vill hann ecke kannast vid Brædur sijna, Er skomu aadur voru hans Jafningiar, Og kann skie hofdu giort vel til hans. Pegar hinn Almaattuge hefur lagt einhvern under Lijma med nockru Mootlæte, Annadhvert Heilsu-Breste, Fie-Missu, Ofbellde og Offooknum vondra Manna, er hann lijdur ad flwga aa suma, sem minne Maattar eru, til ad typta einhvern, Enn laated hann þo rata wr þessu, og sett hann aptur i sinn Stad, Pa stijngur hann bæde Augun wt, og vill ecke Myskuna honum, Sem hann þo sier, ad maa lijda hid sama, sem hann matte þola, og Gud hafde agad hann med, til ad þeckia Vanmatt sinn, og Skaparans Giæsku, Og þegar hann sier Ovin sinn, er hann þykest eiga Heipter ad giallda, Pa segler hann med sialfum sier: Eg skal giora honum, svo sem hann mier giorde: Svoddann er hid mesta Opacklæte. Voru Ecke Tiju Peir Ed Hreinsader Voru, Enn Hvar Eru Pa Hiner Niju? Segier Endurlausnarenn i Gudspiallenu. Betra hefde þessum Opacklaatu Monnum vered, ad Siwkleike þeirra hefde fylgt þeim inn til Daudans, Enn ad þeir yrdu heilbrygder aa Lijkamanum, Enn fyrer Vanbrwkun DRottens Giæsku, A Saalunne Vanheiller. Peir skildu sig fraa þessum Utlenda Manne i þvi, ad þeir snern ecke aptur til sijns Læknara, Og fundu þar med, ad ei væru þeir af hinne Osijnelegu Guds Kyrkiu, Poott ad þeir væru Limer hinnar Sijnelegu; Svo vil eg segia: Ad þeir, sem eg hier ad framann hefe talad um,

um, Er vilia fraaſkilder vera Christi Limum, Og ecke þeckia þa, Þeir eru Stallbrædur þessara Opacklaatu Maña, Og ecke Limer aa hañs Lijkama, Sem er Hofud Safnadarens, Og ecke einasta gieck krijng, giorde Gott og grædde alla, Helldur og leid fyrer Ovine sijna, Jafnvel þa, er hañ siaalfer kvøldu. Vier vorum til Forna wtlender, aan Guds i Heimenum, Og fiarlæger Jsraels Borgar-Riette, Svo sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvert ad þesser Niju Gydingar hafe nockurn Tijma aptur nææd siñe Andlegre Heilbrygde; Pad veit hañ eiñ, sem alleina veit Tolu siña Urvaldra Barna: Eñ siaaum vier til, Utlendingaña Syner, ad vier helldur lijkiunst þessum Utlending, Helldur eñ Abrahams Sonum þessum epter Holldenu, Svo ad Spaadoomur Frelsarans mætte rætast aa sierhverium af oss, Par hañ sagde. Marger munu koma af Austre og Vestre, Og sitia-til Bords med Abraham, Jsaac og Jacob, Eñ Rijkesins Syner munu wtrekner verda i hin ytstu Myrkur, Matth. 8. Vier erum ad soñu komner i Staden Gydinga. Svo sem ad DRottenn wtrak Heidingia fyrer þeim, vegna Synda siña og Stor-Glæpa, svo hefur hañ wtreked þa fyrer oss sokum Hardydgis þeirra og Vantrwar, Peir eru afbrotner, Eñ vier inplantader, Svo sem Paulus ad Orde kiemst, Rom. 11. Eñ Gud giefe, ad fleire eñ eiñ Samaritan fiñest aa medal Tiju Jsraels Maña, þad er þeirra, Sem eiga ad vera, og kalla sig Abrahams Syne epter Trwñe. Diogenes Spekingur var eitt Siñ adspurdur, hver Hlutur ad mest fyrntest aa medal Maññaña, Eñ hañ svarade; Pad væru Goodgiordernar, Pvi maa ei neyta, ad hañ sagde satt, Dagleg Reynsla kieñer þad: Eñ hverneg sem þessu er vared aa medal vor Maññaña Jñbyrdis, þa ætla eg þo, ad Velgiorningar DRotteñs, og Packlæted fyrer þær, Pau eige hiñ skiemsta Alldur hiaa sumumhverium, Og eg maa segia, hiaa allmorgum: Par uñ hygg eg þad satt sie, Er hiner Spoku segia: Ad suñer vanþacke þess meir, sem þeir meira skyllduger eru, Sokum þess, ad vier siaaum hver añañ, Og þar sem oss er eitt Siñ gott giort, þadañ væntum vier meira, Pa lææunst vier þacka Moñunum, Ecke svo af Hiarta sumerhverier, Svo sem til ad orfa þa til, ad halida aafram Goodvilldeñe, þad sieſt aa Stundum, nær þeir eru i einhverium Prautum stadder, sem hvad best hafa til vor giort: Eñ Fodur Liooſaña, Fraa hverium ad kiemur oll good Giof, og oll fullkomeñ Giof, Jac. 1. Og allt hvad fraa Moñunum kiemur, Pad kiemur i Fyrstuñe fraa Gude; Honum þacka Meñ svo lijtt, af þvi vier siaaum hañ ecke, Eñ þreifum þo aa hañs Giæsku, Hañs Velgiorningum og Daasemdum, Hvern Dag, Hvern Tijma, Og hvert Augnablik; Og skal þad nu svo wt-talad uñ þad Fyrra.

Nu er sijdañ ad tala uñ Packlæte Utlendingsins, Og hvad vier eigum af þvi ad læra. Drottningeñ af Sudre mun upprijsa og fordæma þessa Kynslood, Sagde Lausnareñ, Matth. 12. Hun var Framande, Og þo daadest hun svo ad Speke Salomonis, ad Lausnareñ hroosar heñe i þessum Ordum: Eñ oll Salomonis Dijrd var lijtel ad reikna hiaa þessu Kraptaverke DRotteñs, Pvi maa eg þad segia, ad þesse Utlendske Madur mun gieta kieñt morgum Aiferd Packlætesins vid Gud, Fyrer medtekna Velgiorninga

 ninga

giefningar Synda siña allt fram under Daudañ, hañ skal og hvern Dag fyrergiefa allt i Daudañ, Nær honum giefst þar Orsok til, Og þad af Hiarta, segier DRotteñ hier i Gudspiallenu, ecki Yferdrepskapar, ecki Moglunar, Bryxles og eptertalna: Svo giorer Gud, Hañ gi:fur ollum Einlæglega, og telur ei epter, segier Jacob, Cap. 1. Pad er ei noog, ad Meñ umgangest i Meinleyse, Eñ geyma þo eiñ Mordingia i Hiartanu, Og kyssa ä þa Houdena, Er Meñ giarna villdu ad af være; Svoddañ Fyrergiefning er Hræsne fyrer Gude. Hërrañ saa aumur ä þeim Pioon, segier Texteñ: Hañ komst vid i Hiartanu, ad sia Eymd hañs, Er i Prældoom ganga ätte, med Konu og Bornum, fyrdtur ollu sijnu: Svo stendur Optlega um vorn Frelsara, Nær hañ saa Eitthvad Aumt, ad hañs Ydur hafe hrærst af Medaumkan; Svo vill hañ ad vier lynder sieum moote þeim, sem oss tilgiora, Og ydrast þess. Pad er vel tilfunded i voru Maale, ad sia Aumur ä einum; Saa þad giorer, hañ kieñer i Briooste um þañ sem hañ Myskunar, Hañ tekur sier nockud, Hañ ber nockud af hañs Eymd, og verdur sialfur Aumur med sialfum sier, Og þad kañ skie ecke sijst þess vegna, ad hañ veit, ad hañ hefur slijkt forþienad, Og er slijku Volæde underorpeñ, Ef Gud vill. Hañ sem tilgiefur af Hiarta, hañ ällijtur hvad miked hañ sie Gude skylldugur, og hvad hrædlega hañ kuñe þvilijkt ad henda. J klædest Hiartgrooeñe Myskunseme, segier Paulus, ecke þeirre sem er a Vorunum, Og segier; Eted og Drecked, Klædest og vermed ydur, Eñ giefur eckert hinum Purfanda, Ei heldur hiñe, Er segier; Eg vil tilgiefa honum, eñ gleymer þvi þo alldrei, er honum var tilgiort: Helldur þeirre sem hefur diwpar Rætur i Pelalausu Hiarta; Elskar Ovine sijna, Blessar þa ed Bolva, Bidur fyrer þeim sem Ofsækia, Og giorer Gott þeim ed misgiora; Og er eckert Skaplynde farsælla er þetta, Eckert Roosamlegra, Og eckert sem betur Hag sijnum une; Pvi svo sem ad hiñ Heiptræke hefur einga Roo, hañs Matur og Dryckur er honum Swr og Beiskur, Pegar Foolskañ leggur wt i hvorn hañs Lim og Lid, og honum flijgur Mootgiordeñ i Hug; Svo mä og um hiñ segia; Er Foottredur Orietteñ, þad sem David sijngur, Ps: 119. Mikeñ Frid hafa þeir, sem elska þitt Logmaal, Og þeim mæter eckert Hneixle, Pvi ä medal þeirra hellstu Bodorda i Logmaalenu er, Ad tilgiefa Misgiordernar, Og þeir hneixlast ecke af Oriettenum, sem forsmaa Orretteñ; Par fyrer vered hrædlega sampycker ydar Mootstodu-Moñum, Christner Meñ, ä medañ þier erud eñ þa ä Veige med þeim, Svo ecke Ofurselie Mootstodu-Madureñ ydur Doomaranum, Doomareñ afhende ydur Kvalaranum, Og þier verded svo i Oyblissu kastader. Hvar fra hiñ Nadugi Gud vardvelte oll sijn Born, J JEsu Nafne, og giefe ollum oss svo ad umgangast hver vid añañ hier i Nadeñe, ad vier i eillijfum Kiærleika meigum samfagna hver odrum i Dijrdeñe. Ped Vænheyre hiñ Naduge Gud, Fyrer Sonarens Forþienustu, Amen.

# A Allra Heilagra Messu.

Gudspialled, Matth. 5. Cap.

HOG er JEsus leit Foolked, Gieck hañ uppaa Fialled. Og þa hañ sette sig nidur, Geingu hañs Læresveinar til hañs. Og hañ lauk upp sijnum Muñe, Kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir sem Andlega eru Volader, Þviad þeirra er Himnarijked. Sæler eru þeir sem Harma, Þviad þeir munu Huggader verda. Sæler eru Hoogværer, Þviad þeir munu Jardrijked erfa. Sæler eru þeir sem Hwngra og Þyrsta epter Riettlætenu, Þviad þeir skulu Sadder verda. Sæler eru Myskunsamer, Þviad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru Hrein-Hiartader, Þviad þeir munu Gud siaa. Sæler eru þeir sem Frideñ semia, Þviad þeir munu Guds Børn kallader verda. Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætesins Saker Ofsookter verda, Þviad þeirra er Himnarijke. Sæler erud þier nær sem Meñerner Hallmæla ydur, Og Offsookn veita, Og tala i giegn ydur alla Vondsku, Fyrer mijnar Saker, Þo Liwgande. Fagned þier og vered Glader, Þviad ydvart Verdkaup er miked aa Himnum. Þviad so Offsooktu þeir Spaameñena, Þa sem fyrer ydur voru.

Exordium.

SVo er margt Siñed sem Madureñ er, Segier i gømlum Maals-Hætte. Fææer eru þeir Hluter, sem aller Gooda kalle, Eñ i þvi kiemur ollum samañ, ad þad sie Gott ad vera Sæll, og vanta ecke uppaa þad þeir gyrnast, Þo meta ecke aller Sæluna med einu Auga: Þad sem Paulus hiellt Þreck ad vera, þad kalla adrer Full-Sælu. Þad er skrifad uñ Anaxagoram Speking, Ad Sælkiere nockur hafe spurt hañ ad Einhveriu Siñe, Hver ad Farsæll være? Og hafe hañ svarad: EJngeñ Af ÞEim, Sem Þu MEinar, HEldur Saa, Ed Þu KAllar VEsælañ Ad VEra, Hañ Er SÆll. Og hid sama er ad segia uñ Børn Veralldar þessarar: Þad sem þau Sælu kalla, þad er reyndar Volæde, Ef riett er aalited. Þesse Hatijdis Dagur er af Lærefedrum Christelegrar Kyrkiu i Fyrndeñe helgadur ollum Heilogum, Þad er ollum þeim, sem hafa yferuñed fyrer Lambsins Blood, Eñ þo sier i Lage þeim, Sem i giegnum margar Hormungar, Utlegd, Ørbyrgd, Hwdstrokur, Forsmaan, Hwngur, Klædleyse, Lijflaat, og allt þad Illt, er þeir lidu fyrer Christi Nafns Skulld, Þeim sem i giegnum øll þesse Ofkøp, Segie eg, Hafa broteft iñ i sijns HErra Dijrd, Og þaa nefner hañ nu Sæla i Gudspiallenu, Sem er Bruñur allrar Sælu, Og fyrer utañ hvern eingeñ Sæla maa nefnast, Þvi hañ er Gud alleina Sæll, og þeir sem i honum eru, alleina Sæler, Og eingeñ Sæll fyrer utañ þaa. DRotteñ hafde nærre þvi haalft Ar predikad Evangelium Rijkesins, J hveriu þeim verdur Sælañ heiteñ, er þvi trwa: Hañ hafde aadur sagt, Ad hver sem tryde aa Soneñ, hañ skyllde ei fyrerfarast, helldur

helldur hafa Eilijft Lijf, Joh. 3. Ad sæ sem drycke af þvi Vatne, Er hañ munde giefa honum, skyllde ecke þyrsta ad Eilijfu, Joh. 4. Og fleira þess Hættar hafde hañ talad uñ Guds Rijkis Sælu. Eñ svo sem ad Kvinnañ, Er talade vid hañ hiæ Jacobs Bruñe i Samaria, Hun skilde ecke hvad hañ meinte, Þar hun sagde: HErra, Gief mier þetta Vatn, ad ei þyrste mig, og ei þurfe eg ad koma hijngad til ad ausa Vatn: Svo hafa og flester af hañs Tilheyrendum vered Ofrooder uñ þessa Guds Giof, Sierdeilis þar ed Logmælsins Fyrerheit, vid hver þeir voru uppalder, Þau voru añadhvert Lijkamleg, Edur vafeñ i Hylmingu Lijkamlegra Hluta. Fiolde Mañs took vel þessum Bodskap i Fyrstuñe, Eñ þegar til Leingdar liek vid, og þesse Fyrerheit ecke komu svo brædlega fram, Þa hefur Foolked geinged i Tvær Sveiter, svo sem ræda mæ af Joh. Gudspialla-Bookar Siotta og Siounda Capitulum: Og jafnvel hafa ruñed Tvær Grijmur æ sialfa Læresveinana, Þoott ad bæde þeir og adrer sæu Krapta-Verkeñ, Er hañ giorde æ þeim Siwku i Galilæa, Matth. 4. Eñ til þess, ad undervijsa bæde þeim og odrum i siñe Rijkis-Stioorn, Þa tekur hañ þæ hier Afsijdis fræ odrum uppæ Fialled, og talar fyrer þeim Eyrende Rijkesins, i hiñe merkelegu Predikun, Er ritud stendur i Matth. 5. 6. og 7. Capitulum: Hverrar Iñgangur ad er þetta Heilaga Gudspiall, Af hveriu vier i þetta Siñ Hugleida vilium hina Fyrstu SÆlu, og Tveñt þar af oss fyrer Hendur taka. 1. Hversu ad Fatækteñ sie Gagnleg. 2. Hveriu þeim heited sie, sem eru Andlega Volader. Eñ þu sem ert alleina Rijkur, Styrk þu oss Fatæka og Auma til þessa Verks, svo vier verdum i Gude Rijker, Fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

SÆler Eru Andlega Volader, segier DRotteñ: Eg veit, ad Meñ greinast æ þar uñ, hvad þetta Ord Voladur merke i þessum Stad: bæde Augustinus og Chrysostomus hallda, ad þad sieu þeir ed afneita ollum sijnum Verdugleik, og kalla sig alls Goods Overduga, Eñ einkis Ills; Og kañ eg þvi ecke ad neita, ad su Meining sie og foolgeñ i þessu Orde, þvi svo eiga aller Christner lynder ad vera, hvert helldur Rijker eda Fatæker eru, Samt hygg eg þo, ad Lausnareñ meine hier sier i Lage þa, sem eru snauder af Veralldar Munum edur Virdingum, Þviad svo mun þeim flestum hafa hættad vered, Er honum i þad Siñ epterfylgdu: Þad mæ siæ af þvi, Er Kieñemeñerner og Phariseæi sogdu Fordum, Joh. 7. Trwer nockur af Hofdingiunum æ hañ, Edur af Phariseæis? Eñ þesse Almwge, sem ecke kañ Logmæled, Er Bolvadur: Og þar ad auke skrifar Lucas alleina i sijnu Evangelio; Sæler Eru Fatæker, og er hañ vijkur Rædu DRotteñs til hiña, Sem Vesæler eru ad Guds Doome; Þa segier hañ, Luc. 6. Vei ydur Audugum, Þvi þier hafed ydar Huggun medteked: Þa kalla eg þad vijst, ad DRotteñ meine i þessum Stad, Þa sem ei hafa miklu Veralldar Læne ad fagna, Ecke alleina þa, Sem Orbyrger eru, Helldur og þa, Sem æ einhvern Hætt eiga vid bægañ Kost ad bwa, Þvi ad þvilijkra er Guds Rijke, segier Lausnareñ: Þad eru þeir, sem eru eins illa

stadder og Dreigar, Og þo ecke þa alla helldur, Pvi margur er Fatækur, Og skickar sier illa i siñe Fatækt, Er Oþoleñmoodur, Hleypur med Pioofnum til ad stela, viñur alla Ohæfu fyrer Sulltardoom, Til ad rydia af sier Fatækteñe, Sem i sialfre sier er eiñ Heilagur Hlutur, Pvi Guds Sonur hefur hana Helgad med siinu Dæme, þegar hañ giordest Fatækur vegna vor, Par hañ var þo Riikur, Svo vier af hañs Fatækt Riiker yrdum, Segier Postuleñ, 2. Cor. 8. Par fyrer utañ er hun Straff Syndareñar, Og a einga Hlutdeilld i þessu Fyrerheite: Svo eru marger af þessum Hwsgangs Herrum, Er ganga a medal vor, Og leita sier Olmusu i Guds Nafne, Eñ giallda Bolvan fyrer Bleßan, Nær þeir ecke hafa wr hvers Mañs Hende þad þeir vilia: Fraskiled er þetta Illþiide sliikre Nraad, Gud Myskunar siinum Fatækum, Segier Esajas Cap. 49. Eñ ecke Andskotans, Þeir verda ad hafa sliika Myskun, er hañ vill veita, sem þeir lieast til Pioonustu, ad vellta af sier Christi Oke a moote hañs Logmaale, Er skipad hefur, ad sa skule ecke eta, Sem ei vill erfida, 2. Thess. 3. Eñ Matthæus segier oss hier i Gudspiallenu, hverier þeir sieu er þesse Sæla tilheyre, Par hañ leggur til þetta Ord, Andlega, segier hañ: Pad eru þeir, sem ecke Orvænta i Volædenu, Ecke eru Oþoleñmooder, helldur til Frids i Hormungunum, i Offooknunum, i Angisteñe, i Naudunum, Eins og Paulus, Peir ed ecke griipa til Oleifelegra Medala, Og ecke Ofunda þa, er hafa Velgengne Heims þessa, Helldur audmiikia sig under Volldugа Guds Hond i Mootgangenum, Og segia jafnañ, Verde þiñ Vilie: Þesser hroosa sier i siñe Fatækt, svo sem Jacob ad Orde kiemst: Og þad eru þeir ed David kallar Guds Volada, Ps. 72. Petta er su Fatækt, Er eg meina ad ecke alltiid gagne til Himnariikis. Margt ber til þess, Christner Meñ, Ef vier þad vilium riett athuga: Pad er oss vitanlegt, ad vier dugum ecke til þess, ad giora Tvent i einu; Munum vier þa under eins fa þioonad Gude og Mammona? Og er þa hætt vid þvi, ad ef añadhvern skal yfergiefa, ad þeim sem Skwrgod þetta fagurt þyker, Peir mune segia laust vid Gud, Hvern þeir siа ecke, Eñ þiidast Mañona, hver ed glansar i Augunum, so ad margañ hender þvi liikt og Gydinga Fordum, vid hveria DRotteñ segier, Esa. 22. Pier glored Farveg a mille Tveggia Mwrana, fyrer Vatne hins gamla Fiske-Diikesins, Eñ þier liited ecke a þañ, sem þad skapad og myndad hefur; Eñ sa sem eckert a i Heimenum, Hañ hefur miklu betre Orsok og Tækefære til þess, ad verda Riikur i Gude, Og fyrst hañ þeinker ecke a Jardneskañ Aud, Pa skal hañ alldrei draga hañ fra þeim Himneska. Sa sem miklum Aude safnad hefur, Hañ liggur a siinum Dreggium eins og Moab, Jer. 48. Hañ hefur siina Umgeingne a Jorduñe, Par sem hañs Fiesioodur er, Par er hañs Hiarta; Eñ Dreigeñ þarf ecke ad geima vandlega þad sem eckert er, Hañs Umgeingne er a Himnum, hvadañ hañ vænter Frelsarans DRotteñs JEsu Christi, Ef hañ er añars Andlega Voladur, Hañ kieppest vid ad safna sier Fiesiood a Himnum. Par eru og kañ ske farer sem hafa Riettfeingeñ Aud i Heimenum, Pvi heiter hañ og Rangleтis Mañona; Eñ a þessare Audlegd, sem i Himnenum er, Eiga aller Kost ad Saklausu, Gaungu-Madureñ

svo

svo vel sem Konungureñ, Blindum, Holltum og Lømudum er þar tilboded, þeir kaupa fyrer alls eckert, Sem hañ eignast, Og hversu ad þeir sieu hæfare til ad naa þessare Audlegd, sem ei hafa miked epter ad draga, Þad kieñer oss Frelsareñ, Er hañ segier, ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, Eñ Rijkum Mañe iñ i Himnarijke; Eg vil ei þar um̃ tala, ad Rijkdoomureñ aflast med Erfide, Geymest med Ahyggiu, Og missest med Sorg, Ef missast skal, Eñ su Sorg er sialldañ aan Syndar; Mørgum hefur hun steypt i Ørvænting, Og dreiged til ad bæta Raad sitt aptur med Raangindunum, Og ad vijsu eru flester Oþoleñmooder yfer Skadanum: Faaer eru eins Lynder og Job, er hañ sagde: Gud gaf og Gud aftook, Sie Nafn DRotteñs blessad, Job. 1. Eñ saa griet alldrei fyrer Gull, Sem ecke aatte þad: Hañ sem er sañur Guds Vesælingur, Hañ er sem Audlega Voladur, Þoott hañ misse þañ Faatækdoom, Er hañ brwkar til Dags og Nætur, Þa hefur hañ eckert af siñe Audlegd mist, þvi hun er i Himnenum, Hun skiemest ecke, segier Petur, Hana skal eingeñ fraa honum taka, Og þott hañ skyllde i Hwngre og Klædleyse wt af deya, Þa flijter þad honum alleina til Rijkes. Þad er skrifad um̃ Alexander hiñ Stoora, þañ fræga Konung, ad þegar Lid hañs var allt Ofþwngbwed vorded af Herfaangenu, Svo honum þotte lijted framgeingt verda, Þa brende hañ upp Faung þeirra, Og huggade þa med þvi, Ad þeir munde safna Ogryñe Fiaar, Ef þeir liettu þessu af sier, Eñ sæktu med Flijte til þeirra Landa, sem væru audug af Gulle og Sylfre. Meige eg nu samañ taka þad sem sundurleitast er, Þa sijnest mier, ad hiñ Alvijse Konungur giøre vidlijkt med Faatækteñe vid sijna Volada, Þvi nær þeir hafa ørvænt sier Veralldlegs Auds, Þa kieppast þeir epter þeim Himneska, Þegar þeir ætlast til einkis Lids af Moñum, Þvi faaer eru Viner hins Snauda, Prov. 19. Þa leita þeir Lids hiaa DRottne, Og nær hañ hefur, svo sem i Speigle, Laated þa siaa Dijrd sijns Rijkes midt i Ørbyrgdeñe, Þa giora þeir Skøll ad øllu Oflæte Heimsins, Og er þvi Avoxtur Faatæktareñar þesse, ad hun gyrnest ei meir eñ hun hefur, Og er hun þa rijkare helldur eñ Salomon edur Assverus; Jaa, hun gyrnest eckert nema siñ Gud, Og hañ stendur hinum Faatæka alltijd til Boda: Eñ saa er Agiarn, sem vill eiga meira eñ Himens og Jardar Skapara. Aller vitum vier þad, ad vier baarum eckert iñ i Heimeñ, Og eins vel, ad eckert munum vier i burtu bera, Jafnvel þoott sijnast meige, ad nockrer þad ecke satt hallde, Añars mundu Meñ leggia meire Hug aa, ad lifa vel, Eñ verda rijker, Og velldur þad þvi, ad Hiartad er svo diwpt nidur socked i Maurana, ad sumer giæta þar ecke ad, Fyrr eñ Daudeñ grefur þa upp, til ad leggiast i eina adra Grøf: Þeir gleyma þvi, Ad Nakter komu þeir af Lijfe Moodur siñar, Og svo munu þeir þaangad aptur fara, Job. 1. Þad er ofañ i Jordena, sem er allra Mooder. Þar er eingeñ kiendur, sem hañ kiemur ecke, fyrer þeim Volada: Hañ aa ecke vid mikeñ Heim ad skiliast; Þvi skal þad ecke draga hañ fraa Himmarijke, Og su Audlegd, Er hañ aatte i Gude i þessum Heime, Og ecke var nema Pantur epterkomande Farsælldar, Hun fullkomnast, nær hañ iñgeingur i Dijrd sijns Herra, Og rætest aa honum þad, er Syrach skrifar: O! Daude

Hver-

Hverſu goodur er hiñ Doomur hinum Fatæka? Vier vitum hverſu ad hin liootu Skrymſle, Er Synden̄ og Diofulleñ hafa fært iñ i Verolldena, Agyrne, Ofund, Ofrijke, Drambſeme, Ohoof, Og Rangłæte, Hverſu ſegie eg, ad þad ſie gagnſtædt Himnarijke, Eñ allt þetta vill ganga vid Rijkdoomeñ; Sa ſkal vel giæta ſijn, Er ecke hefur neiñ Snert af þeſſu, Ef hañ Rijkur er, Þar fyrer ſegier Paulus; Ad þeir ſem vilia Rijker verda, Þeir falle i Diofulſens Snorur; Eñ Fatækteñe er eingañveigeñ ſvo hætt vid ſlijku, og ad vijſu ecke þeim, ſem er Andlega voladur, Þvi hañ er nær Himnarijke, eñ hiñ, Nema ſa Rijke aſtunde ad vera i Gude rijkur, Og i goodum Verkum, og ad vijſu hefur Chriſtur lagt Grundvoll ſiñar Kyrkiu i Fyrſtuñe af hinum Fatæku, Þad kieña oſs þeſſe Frelſarans Ord, Er i Gudſpiallenu ſtanda, Og med ſama Hætte hefur þeſſe Bygging riſed epter hañs Himna-For, Þad Anglijſer Paulus, Er hañ ſkrifar til Corinthios, Cap. 1. Siaed ydar Kollun, Brædur, ad þier erud ecke marger Vollduger, ecke marger Gofuger; Þad kieñer oſs Jacob Poſtule, Hver ed var a Lijfe Prlaatiju Arum epter þad DRotteñ var iñgeingeñ i ſijna Dijrd, ſegiande, Cap. 2. Hefur ecke DRotteñ utvaled hina Fatæku i Heime þeſſum, Rijka i Trwñe, Og Erfingia þeſs Rijkes er hañ ætlad hefur þeim ſem hañ elſka, Þeſſa Alvijſa Byggingarlags hefur margur Audugur ſijdañ noted, Þvi er þad Synd fyrer oſs, ad forſmaa Guds Volada; Eñ faer voru þeir af Rijkesmoñum, Er geingu DRottne til Handa, medañ hañ umgieckſt i Holldenu; Eg ætla þegar Meñ taka Zacharjam og hañs Hws, Nicodemum, Joſeph af Arimathia, Johañem: Hws-Frw Chuſæ, Þegar Meñ taka þeſſa burt, Þa mune hinertellande, Sem ſkipuduſt vid hañs Kieñingar af Hofdingiunum, utañ þeir ſem Nefdeñ droo til, Svo ſem voru Jairus, Konungs-Madureñ, og Hundrads-Hofdingeñ, Og eru þeir þa i Selſkap med Fatækum, Svo ſem adur er ſagt.

Hier af alykta eg nu ſvo, ad eins og eiñ vijs For-Smidur, Hañ velur hid beſta Efne til þeirrar Byggingar, Er hañ ætlar ſier vel ad vanda; Svo hefur og Frelſareñ breytt i þeſſare ſiñe Kyrkiugiord, Hañ hefur valed þad i Underbygginguna, Er hañ ſaa ad hentugaſt var; Þad voru hañs Fatæker; Svo var hañ ſiaalfur, ſem var Hyrningarſteiñeñ i þeſſu mikla Forvirke, ſvo voru hin ſterkuſtu Maattar-Trie þar i, ſem voru hañs Poſtular, uppa hverla vier bygder erum, ſvo voru þeirra Epterkomendur fram̄ epter Olldunum, Þar til Diofulleñ ſpillte þeſſu Guds Verke med Agyrndeñe, Ofundeñe, og Drambſemeñe, Svo ſem lioost er af Chriſteñdooms-Sogunum, Og ſiaa Meñ af þeſſu medal añarra, Hverſu ad Fatækteñ og Guds Rijke eiga vel ſameñ, Eñ þo ad Rijke DRotteñs JEſu hefde ſijn Upptok hier a Jordune, Sem var af Um̄komulitlum Fiſkurum, Olærdum og einkes megnande, Þoott þad Efliſt hafe fyrer utañ allt Ofbellde, Haareyſte og Vopnaburd, Þvi eingeñ heyrde hañs Raunſt a Strætunum, Og hañs Rijke var ecke af þeſſum Heime, Ei helldur Vopn hañs Herfarar Lijkamleg, Hvers Strijdsmeñ ad hofdu Tunguna fyrer Veriu, Þoleñmædena fyrer Atviñu, Trwna fyrer Skiolld, Kiærleikañ fyrer Vijge, Fatæktena, Jaa, Siaalfviliuga Fatækt a

Stund-

Stundum, i Stadeñ Gulls og Silfurs, er Heimureñ kallar Ast þeirra Hluta, sem hañ vill lata Framgang hafa, Samt hefur þo eingeñ af Veralldar Hofdingium svo vijdt wtþaned sitt Vellde um̃ Heimeñ, svo sem hañ, Þvi Gud hefur giefed honum Endemörk Veralldareñar til Arfleifdar, Svo þad er ad fullu og ollu rætt, sem Esajas fyrer spaer, Cap. 2. Þad skal skie a Sijdustu Dogum, ad nær þad Fialled Guds Hwss er sett uppa adra Fialla-Tinda, Og upphafed yfer Hálsana, ad allar Þiooder skulu þangad saman safnast. Hvert er þad Fialled? Þad er Christi Rijke: Hvert er þad Hwsed? Þad er hañs Kyrkia: Hver eru þau Fiolleñ? Þad eru Rijke Veralldareñar, um̃ Heimeñ: Ja, Eingeñ hefur svo fliootañ, svo frægañ Sigur uñed, Sem vor Konungur, Og þo med faum og fatækum Moñum; Hañ lagde under sig meira Rijke med Toolf Postulum a stuttum Tijma, Eñ Alexander hiñ stoore a Toolf Arum med ollum Grícklands Her. Eiñ Madur, St. Páull, Hroosar þvi, ad hañ hafe allt i fra Jerusalem iñ til Illyricum uppfyllt allt med Evangelium, Svo þad er sañkveded, Er Esajas skrifar; Mun Jordeñ fæda a einum Deige? Mun ein Þiood gieteñ verda i Einu? Þar Zion geingur under eins þwngud med Born sijn og fæder þau, Esa. 66. Svo hefur nu hinum Stoora Allsheriar Konunge þocknast ad byggia sitt Rijke med Fatækteñe, Þvi skylldu þa ecke Þegnar hañs kalla hana ollum Rijkdoome rijkare? Þar hañ er alleina Rijkur, Sem þad hefur wtvaled, Sem audvirdelegt er fyrer Heimenum. Eñ Gud Naade oss Auma, Þad er hiñ allra meste Skade vor, ad þott vier berum oss ad þioona Gude, Þa haungum vier svo fast vid Andeñ og Aura Safned, ad Meñ gleyma Gúds Bodordum, Og stijga fram̃ yfer þau Takmork, Er hañ hefur sett oss, svo erum vier freker til Fiarens: Eñ hvad er þad, Christner Meñ? Þad er ad færa Foorner i Jerusalems Mustere, eñ offra þo samt a Hædunum, þad er ad sveria vid Nafn DRottens, Og þo under eins vid Malcom eins og Juda. Heyrum þvi Ord DRottens af Muñe Jeremiæ: Ef þu ætlar ad snwa þier aptur til mijn, Israel, Þa snw þier, og reika ecke hijngad og þangad. Eingañveigeñ er þad hier med sagt, ad Meñ skule kasta fra sier allre Um̃hyggiu fyrer Lijkamanum; Alla Hlute hefur Gud Mañenum under Fætur lagt, Til þess hefur hañ giort Natturuna svo rijka, ad Mañeskiañ skyllde audgast þar af; Eckert hefur hañ forgiefens skapad, helldur Mañkynenu til Nota, eñ sier til Loss og Dijrdar; Eñ hitt segie eg, ad Meñ late Gud vera Herrañ, Eñ Mam̃ona Þrælleñ, Ja, ad vier sieum Audsins Herrar, Eñ latum ecke hañ drottna yfer oss, Eñ þo allra sijst, Ad vier latum þeña þietta Leyr svo klessast vid Hiarta vort, Ad vier gleymum Gude edur hañs Boludum. Og er þad nu svo wt talad um̃ hid Fyrra.

Nu Eptersylger ad tala um̃ þad, Sem hinum Andlega Voludu heited er. I Textanum stendur: Þviad þvilijkra er Himnarijke. Nu er Guds Rijke med Tveñu Moote: Eitt er hañs Naadar-Rijke, Hvert og kallast Himna-Rijke, Matth. 18. Þar ed stendur: Himna Rijke er lijkt einum Konunge, Sem reiknast vallde vid Þioona sijna. Añad er hañs Dijrdar-Rijke: Sa sem vill na til þess sijdara, Hañ skal endelega hafa

Hlutdeilld i hinu fyrra, Og eingeñ hefur saa komest i hañs Dijrdar-Rijke, sem ecke hafe aadur vered i hañs Naadar-Rijke; Sumer leingur, Sumer skiemur: Þar eru nockrer kallader sneṁa Morguns, Adrer ecke fyrr eñ uṁ hina Elleftu Stund, Eñ þad er vijst, ad hverutveggiu þessu lofar DRotteñ þeim, sem ad eru Andlega Volader, og þeirra Lijkum. Hver eru þa Giædeñ i DRotteñs Naadar-Rijke? Ecke Metord, ecke Audæfe, Ecke Sællijfe i Mat og Dryck, Ecke Hefnd yfer Ovinum sijnum, Nie þad Hiartalag, er feste sig vid nockud af þessu, Þott þad meige þeim giefast, sem eru Chr sti Þegnar, þvi Guds Rijke er ecke Matur og Dryckur, Helldur Riettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, segier Paulus, Rom. 14. Og wt af þessum hañs Ordum vil eg i stuttu Maale segia, hver ad sieu Audæfe Guds Naadar-Rijkes: Þad er Riettlæted, Ecke vort eiged, Sem ecke er betra eñ Nidlags Fat, þegar þad er sem Kostulegast, Helldur JEsu Christi, Hver oss er til Riettlætis af Gude giefeñ. Skyllde eg nu vilia taka nockurn Veralldar Aud fyrer þad, DRotteñ miñ? Fyrer þad eru mier Synder mijnar tilgiefnar; Eñ þegar þær eru kvittar, Þa er eg rijkare i ollu mijnu Volæde, eñ Salomon i allre siñe Dijrd; J þvi maa eg byrtast fyrer Auglite þijns Fodur, eñ ecke i Pelle og Purpura hiñs Rijka Sælgiætings, Luc. 16. Fyrer þad mun eg Guds Barn kalladur verda, Eñ ecke þo eg nefndur være Doottur Sonur Pharaonis. Hvad gagnar þad Mañenum, þoott hañ eignest allañ Heim þeña, eñ lijde Tøpun aa Saalu siñe? Hverre eg veit ad borged er, medañ eg aa þañ Fiesiood, sem hun er Endurkeypt med. Þoott ad Sveiñeñ Conia være Signets-Hrijngur aa miñe Hægre Hende, þa skyllda eg slijta hañ þadañ, segier DRotteñ uṁ Jeconiam, Son Jojachims Gydinga Konungs, Jerem. 22. Eñ eg er þess fullvruggur, DRotteñ, ad þu ecke slijtur þijna Volada wr þijns Sonar Hondum, Hvar þeir skrifader eru, Þvi eru þeir ollu betur til þijns Rijkis borner, helldur eñ Veralldareñar Born, Hversu sem þau mektug eru, þegar þeir hafa hañs Riettlæte fyrer sig ad bera, Þvi hañ hefur giefed þeim Makt til ad vera Guds Born, sem aa hañs Nafn trwa, Johañis. 1.

Af þessare Root Jesse sprettur Fridureñ, Sem Paulus uṁgietur, Þvi hañ er Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Og er þad nu saa Añar Rijkdoomur i Guds Naadar-Rijke. J Rijkium Veralldareñar er eingeñ Fridur: Þegar Meñ taka Salomon og Augustum Keysara i burtu, Þa skulu Meñ ecke fiña morg Dæme til, ad Veralldar Hofdingium hafe tekist leinge Fride ad hallda, Jafnvel þoott Gooder og Riettvijser vered hafe, Og kyñe þad skied ad vera, Til ad teikna þar med Christi Rijke, J hverlu ad aa Fridnum mun eingeñ Ender verda, Esa. 9. Þvi saa eine þeirra var hañs Fyrermyndan: Eñ aa Dogum hiñs var Lausnareñ i Heimeñ fæddur: Eñ i Christi Rijke geingur þad odruvijse til; Þar er ecke saa Fridur, sem Verollden giefur, Helldur hañs Fridur, Sem hañ oss giefed, Sem hañ oss epterlaated hefur, Hvern eingeñ skal af oss taka. Hiner Oguudlegu hafa eingañ Frid, Segier DRotteñ hiaa Esajam, Cap. 48. Þeir Toñlast og tyggiast uṁ þetta Volæde, er þeir Rijkdoom kalla, Eins og Gadd-Hestar uṁ illt Foodur. Eñ

Frid-

Fridurenn i Christi Naadar-Rijke er stadfastur, Poott hans Undersaatar hafe Piaaning i Heimenum, Pa hafa þeir Frid i honum, og eru fullorugger, Þvi hann hefur Heimenn sigrad: Pad er Fridur vid Samvitskuna, Þvi Syndenn er afmaad med Guds Sonar Riettlæte: Fridur vid Gud, Sem er Fridstilltur fyrer hans Blood: Fridur Innbyrdis, og Eindrægne i Andanum medal allra Guds Barna: Og i einu Orde ad segia: Pad er saa Fridur Guds, sem ædre er ollum Skilninge, Af hverium og kiemur Fognudurenn i Heilogum Anda, Sem er hin Pridia Astgiof, sw ed Guds Voludum heitenn er i Christi Naadar-Rijke; Pad er saa Fognudur, sem Krossfester Mannenn Heimenum, og Heimenn Mannenum, Gal. 6 Saa ed forsmaaer alla Veralldarennar Glede, saa ed lætur Paal og Silam lofa Gud i Faangelsenu, Danielem gaanga Ohræddann i Leona Grofenne, saa er þvi til Vegar kiemur, ad Menn graata svo sem ei Graatande, og fagna svo sem ei Fagnande, 1. Cor. 7. Svo sem hrygguer, og þo jafnann glader, Svo sem Faatæker, Enn þo marga Audgande, Svo sem eckert hafande, og eigande þo alla Hlute, eins og Paulus umm sig skrifar, 2. Cor. 6. Þesse er Fognudurenn i Heilogum Anda, sem rijker i Christi Rijke. Þegar Lærefsveinarner voru hrygguer af þvi, ad Lausnarenn sagde þeim fyrer sijna Burtfor til Fodursins, Pa sagde hann: Pier hafed nu ad sonnu Hrygd, Enn eg skal siaa ydur aptur, Og ydvart Hiarta skal fagna, Og ydvarn Fognud skal eingenn af ydur taka. Ecke talade DRottenn i þad Sinn umm hina eylijfu Himnarijkes Glede, Helldur umm þann Fognud, er þeim gafst af hans Upprisu, Hver svo var mikell, ad þeir trwdu ecke þvi, ad hann upprisenn være, fyrer Fagnadar Saker, Enn þo allra hellst talar hann umm Astgiafer Heilags Anda, er hann hafde lofad ad senda þeim af sijnum Fodur: Hann var saa ed til fulls uppriette Israels Rijke, Pad er Guds Rijke inne hiaa oss, sw þeir hofnudu ollum Hlutum, og reiknudu þaa Preck ad vera hiaa DRottne sijnum JEsu Christo, Og med þeim sama stioornar hann enn nu sijnum Þegnum; Pad er ollum þeim er aa hans Nafn trwa; Hann er þad, sem ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, Enn ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, Jaa, Erfingiar Guds og Samarfar Christi, uppaa þad ad ef vier med honum lijdum, Pa skulum vier og med honum Dijrdleger verda, Rom. 8. Þesse Guds Ande er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þeirrar sem þar uppe er og ei maa skiemast, Eige saurgast og ei rotna, svo sem Petur ad henne kvedur, 1. Pet. 1. Pad er hans eilijfa Dijrdar-Rijke, Er eg fyrer skomu minntest aa, Hvert ed hinum Andlega Voludu heited er; Pad er saa Fognudur, Sem ecke hefur Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Manns Hug uppstijged, segier Esajas: Hvar Gud er allt i Ollu, Og eingenn Umskipte Liossens nie Myrkursins umm Oendanlegar Allder Allda. Eckert Rijke Veralldar hefur svo Mektugt vered, ad ecke hafe þad Eydelagst, Og Eitt hefur uppetid Annad; Enn þetta mun eingann Enda taka, Þvi vier munum Eilijflega med Christo vera. Veralldar Hofdingiar drottna yfer morgum Mannsjofnum, Sumum Vondum, Sumum Goodum, Sumum Rijkum, Sumum Faatækum, Sumum Trwum, Sumum Hreckvijsum: Enn þetta er Samkunda

Heilagra, utvaled Foolk og Konunglegur Prestskapur. Hiñ Nafnfræge Konungur Pyrrhus Epirota Konungur spurde siñ Sende-Mañ, er hañ hafde giort fraa sier til Romaborgar, hvilijker ad væru þeirra Raad-Herrar? Eñ hañ svarade: Ad Raaded være eins og Konunga Samsæte; Eñ þad maa eg med ollu meira Riette segia uñ Holl ens Mikla Konungs, DRottens Zebaoth, Þvi þar eru aller Undersaatarner Konungar: Allur Heimureñ nægde ecke Metorda Gyrnd eins Mañs, Alexandri hiñs Stoora; Eñ Guds Rijke næger svo miklum Skara, sem eingeñ fær taled, Og hefur þa hver eiñ svo miked Rijke, ad Alexandri Vellde maa i eingañ Samjofnud koma. Þegar DRotteñ spaaer uñ Vegsemd Christi Rijkis hier i Nærdeñe, Þa segier hañ, Zach. 12. Ad aa þeim Deige skule hiñ Vesælaste af Juda verda eins og David, Og ad jafnvel þeir Heimsku ei kuña ad fara villt, Esa. 35. Þvi voga eg ad segia: Ad hiñ Miñste i Rijke Himnaña mune verda heilagre eñ Johañes, Vitrare eñ Salomon, Frijdare eñ Absalon, Sterkare eñ Samson, og Rijkare eñ oll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd. Þessarar Sælu niootande ad verda, uñ þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, JEsu Christe, Þier med Fodur og Heilogum Anda, Sie Valld og Heidur, Rijke og Kraptur, uñ Allder Allda, AMEN.

# Tuttugasta og Þridia Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

A Þañ Tijma. Þa geingu Phariseærner, og hielldu eitt Raad, ad þeir feinge veidt hañ i Ordum. Og sendu til hañs sijna Lærisveina med Herodis Þienurum, So segiande: Meistare, Vier vitum þad þu ert Sañsogull, og kieñer Guds Gotu i Sañleika, skeyter eige nockrum: Þviad þu fer eige ad Mañvirdingum. Þar fyrer, seig þu oss, hvad þier lijst: Hvort leyfest ad giefa Keysaranum Skatt eda eige? Eñ þa JEsus formerkte þeirra Vondsku, Sagde hañ: Hvad freisted þier mijn Hræsnarar? Sijned mier Mintena Skattsins: Og þeir feingu honum Eirn Pening. JEsus sagde til þeirra: Hvors Mynd og Yferskrift er þetta? Þeir sogdu honum Keysarans. Þa sagde hañ til þeirra: Giefed þa Keysaranum, hvad Keysarans er, Og þad Gude hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, Forlietu hañ og geingu i burt.

## Exordium.

Vier vitum, ad þeim sem Gud Elska, samverka aller Hluter til hiñs Gooda, Segier Paulus, Rom. 8. Þetta sañar oll Heilog Ritning med Postulanum, Bæde med Ordum og Dæmum: Eingeñ hefur sw Torfæra vorded aa Gotu

fyrer

fyrer Guds Bornum, ad hin Mattuga DRottens Hond hafe ecke rudt hana; og le-
idt sijna Elskendur þar i giegnum, a einhvern Hatt, til þess Gooda, Er hañ hefur þe-
im fyrerbwed. Hardydge Joseps Brædra vard honum til Upphefdar, Gen. 41.
Þvermoodsku Pharaonis snere Gud sijnu Foolke til Trwarstyrkingar, Exod. 12.
Sw Bolvan er Balach Konungur villde hafa keypt af Bileams Muñe, Num. 23.
Vard Israel ad Blessan. Achitophels Raad urdu ecke einungis ad Onijtu, 2. Sam.
17. Helldur David til Sæmdar Auka. Araaser Sauls Konungs giordu hañ fræg-
añ i Israel. Jessabels Offsookner styrktu Eliam, 1. Reg. 18. Offstope Hamans
liette Prældoomenum af Guds Foolke, Esth. 8. Og þurfum vier ecke margra Dæma
hier um̃ ad leita: Eingeñ hefur svo Illt i Siñe haft, svo sem Kieñemaña Hofdingiar-
ner, þegar Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Israels Foolke samañ-
sofnuduſt yfer JEsum Guds Son, til ad giora allt þad, er hañs Hond hafde adur fyr-
erhugad ad skie skyllde, Act. 4. Eñ þessare Illsku þeirra snere Guds Alvitra Raad oll-
um Heime til Myskunar og Syndalausnar, Þviad i hañs Nafne, Sem þeir i þad Siñ
heingdu uppa Tried, svo sem adra Bolvan, Þa faa þeir aller Syndaña Fyrergiefn-
ing, sem a hañs Nafn trwa, Ad Vitne allra Spaamaña, Act. 10. Svo Meñ meiga
jaata þad satt ad vera, Sem Eliphas segier, Job. Cap. 5. Ad DRotteñ faange hina
Vitru i Slægdum þeirra, Og Raad þeirra, Er i giegn standa, munu detta. Dæme
þar uppa hofum vier i þessa H. Dags Evangelio, Þar vier heyrum, ad hiner Olmu
Hundar voru eñ nu Einusiñe wtsender, til ad faanga hid Saklausa Guds Lamb, og
hofdu svo haglega tilbwed sijnar Veidebrellur, ad ecke skyllde tilsleppa: Eñ hañ sem
visse hvad med Mañenum bioo, og Onijt giorer Raad hiña Ogudlegu, Hañ fellde þaa
i hina somu Grof, Er þeir hofdu honum bwed, Og vañ a þeim med þeirra eigeñ Vop-
ne, Svo sem vier heyrdum af Gudspiallenu, Af hveriu vier nu vilium Hugleida. 1.
Hvad vier sieum Yfervalldenu skyllduger. 2. Hver ad sie Skyllda vor vid Gud
Almaattugañ. Styrk oss hier til, DRotteñ miñ, Fyrer þijns Sonar Forþien-
ustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Giefed Keysaranum Hvad Keysarans Er, segier DRotteñ: Meñ leggia þad kañ
skie ad litlu sumer hverier, ad þeir biooda ad hlijda sier, hverra Virding ad vex vid
añarra Undergiefne: Þad kyñe ad sliwga einum i Paanka, ad ecke være ad hen-
da Reldur a þvi, þoott ad Logeñ og almeñelegar Skickaner segie þeim nockur Pyngsl af
Hendur, sem eingu gieta af sier hrunded, Saker Vanmaattar sijns. Þvi þeir somu raa-
da fyrer Logunum, sem Tollana taka: Eñ giætum ad hver saa er, ed þetta segier: Þad
segier saa, Sem allt Valld giefed er, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Eñ er þo i
Præls Lijke auglijstur, Philipp. 2. Hañ sem allt Silfur og Gull a, Og ecke vill segia
Mañenum til, Ef hañ hwngrar, Ps 50. Eñ hafde þo ecke hvar ed hañ maatte Hofde sij-
nu ad halla, Matth. 8. Hañ sem a hverre Stundu kuñe ad bidia Fodureñ r m̃ 12.

Legion Eingla, Matth. 26. Eñ kom þo i Heimeñ, Ecke til þess, ad læta sier þioona, helldur uppa þad hañ ødrum þioonade, Matth. 20. Hverium Gud hafde giefed Tignar-Sæte sijns Fødur Davids, Luc. 1. Eñ vard þo Forsmaan Mañaña og Fyrerlitning Foolksins; Fyrer vorar og allrar Veralldareñar Synder, Esa. 53. Segied mier Brædur mijner, Mun hañ, Sem svo Haattadur var, Hafa talad þesse Ord fyrer sijna Skulld, Edur munde hañ ecke hafa kuñad ad naa Riette sijnum, Hefde hañs Rijke vered af þessum Heime? Ecke munde hønum hafa þad Torsookt vorded, Helldur talade hañ þau til Blygdunar þverbrotnum Gydingum, Hverier ei villdu þeckia hiñ Romversta Keysara fyrer siñ Hofdingia, Er þo hafde af Gude þeiged Vald yfer þeim, Og til þess, ad kieña þier, Guds Barn, Þa Hlijdne, Er þu ert Yfervalldenu skylldugur uñ: Þier kañ ad søñu til Hugar ad koma: Hvad velldur þvi, ad hañ skule helldur drottna yfer mier, Eñ eg yfer hønum, Þar vid erum þo bæder nakter i Heimeñ borner, Bæder eigum vid Ætt ockar til Adams ad rekia, Bæda hefur Gud skapad, Og hverigur ockar hefur neitt af sialfum sier? Þar fellur Svar til: Fyrer Guds Saker skalltu hønum undergiefeñ vera, Hver ad er allra Konungur: Paulus segier med berum Ordum, Rom. 13. Þar er eingeñ Valldstiett, Nema hun sie af Gude, Helldur eru þær Valldstiettet sem til eru, af Gude skickadar, Þar fyrer, Sa ed Valldstietteñe mootstendur, Hañ mootstendur Guds Skickun, Eñ þeir ed mootstanda, afla sier Fordæmingar: Þar fyrer, Sa sem segiest Gude villia vera undergiefeñ, Hañ sie og Valldstioorneñe undergiefeñ, Hver af Gude er skickud. Þu segier, Hañ kom nakeñ i Heimeñ eins og eg, Eñ ef Gude þocknast ad klæda hañ i Purpura, Eñ þig i Totur, ættu Søk a þvi? Ertu þar fyrer Rangeygdur þviad hañ er Goodgiarn. Þid erud bæder af Adam komner, Eñ sa sem hafde Valld til ad mynda Adam af Leyr Jardar, Mun hañ ecke hafa Valld til ad setia Eitt Kiered til Heidurs, Eñ Añad til Vanheidurs? Rom. 9. Hverigur yckar hefur neitt af sialfum sier, Af hverium þa? Af Gude, Þar fyrer ættu hvad mest ad virda hañ sem yfer þig bodeñ er, Þvi þa Virdingu hañ hefur fram yfer þig, Hana hefur hañ af Gude þeiged; Forakta þvi ecke hañs Skickan, Eñ læt þier nægiast þiñ deilldañ Verd, Og svo sem Meñ eru Konungenum skylldugir ad hlijda næst Gude, J øllum þeim Hlutum, sem Gud ecke bañad hefur, Þvi framar ber ad hlijda Gude eñ Møñum, sagde Petur, Act. 4. Svo byriar oss og ad vera þeim undergiefner, sem hañ yfer oss skipad hefur, ad svo miklu Leite sem hañ hefur þad skipad, Þvi svo segier Petur, 1. Pet. 2. Vered undergiefner sierhverre Mañlegre Skiepnu, Saker DRottens, Hvert helldur Konungenum, svo sem Yferrædande, Edur Stioornurunum, svo sem þeim er af hønum eru sender: Sa sem þeim mootstendur, Er af Konungenum sender eru, Hañ mootstendur Konungenum; Sa sem Konungenum mootstendur, Hañ mootstendur DRottne, Sa sem mootstendur DRottne, Hañ steypper sier i Fordæmingu, Hvar af þad vill fylgia, ad sa sem sijna Yferbodara svijkur, vanvirder edur mootstendur, J þvi Starfe, Er þeir a Hende hafa, Hañ er sama Doome undervorpeñ hia Gude. Hvad eru Meñ

þa Yfervalldenu skyllduger? Það segier oss Paulus Rom. 13. Gialldeð ollum það þier skyllduger erud; Þeim Skatt er Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, Þeim Otta er Otte heyrer, Þeim Heidur er Heidur heyrer. Tveñt það Sijdara er ecke svo miog Aboota vant, Jafnvel þott að Otte sæ, er standa ætte af Valldstioorneñe, hallde sumum Moñum lijtt aptur fraa vondum Verkum; Eñ wtvortis Lotning og Virdingar fær Meñ noogar, Þar er ei yfer að klaga, Þvi margur verdur til að kyssa æ þa Hondena, Er hañ giarnañ villde af være, Eñ það sem gialldast æ, Er optast tregara hiaa morgum, Ecke sijst við þa sem oss eru af Gude skickader til að vaka yfer Saalum vorum, af þvi þeir ecke hafa Sverdeð það Lijkamlega i Hondunum; Eñ hvað þvi Andlega viðvijkur, Þa hafa sumer Meñ svo brynjað Samvitskur sijnar med einu Staal-Hiarta, að Sverd Andans, Sem er Guds Ord, viñur ecke æ hana, Jafnvel þott það sie giort til þess, að þreyngia sier i giegnum Bein og Merg; Og vil eg ecke fæ mier það til Orða, Þott Meñ sieu treger i Giolldunum, Guð giæfe þeirra Christelegum Amiñingum hlijdt være, Þa mættu þeir hitt einkis akta, Þvi DRottenn er þeirra Hlutskipte. Eg vil aptur hverfa til þess, Er eg strax um talade: Giefeð Keysaranum hvað Keysarans er, Segier Christur: Hañ talar hier sier i Lage um þær Skylldur, Er Yfervalldenu gialldast eiga, Og þetta er ecke Mañs edur Eingels, Ecke nockurs Veralldlegs Konungs, helldur sialfs Guds Sonar Boð, Þar fyrer, að lijka svo sem sæ Kongs Umboðsmaður, Er tekur framar eñ hañs Herra hefur boðeð honum, Hañ stelur, Svo er og hiñ Þioofur i Guds Auglite, Er dregur það af Yfervalldenu, Er þvi með Riettu byriar að hafa, Og sæ er það wtslæter með illu Giede, Hañ giorer Gialld sitt að Synd og að vondu Verke, Þvi segier Paull, Rom. 13. Þar fyrer er einsætt Undergiefeñ að vera, Ecke alleina vegna Reideñar, helldur og Samvitskuñar vegna, Hañ meinar Konungsins Reide, Hver eð Salomon segier, Prov. 20. Að sie eins og ungs Leons Oskur, Helldur og Samvitskuñar vegna, Það er vegna Guds, Sem þetta boðeð hefur, Hverium vier erum i Hiortum og Samvitskum vorum Skulldbundner. Margur Ohlutvandur þeinker svo, Og sumer kañ skie leife sier að tala: Eg hefe eckert Gott af Valldstioorneñe, Hun er ecke neina Almwganum til Þijngsla, Þeir hafa miklar Alogur, Meñ sæta hordum Refsingum af þeim, Jafnvel fyrer smaaar Saker. Heyr mier, Barn mitt; Jeg vil ecke tala um Guds Boð i þ ssu, Þar Postuleñ skipar að Meñ skule vera sijnum Yfirboðurum undergiefner, Ecke einasta Froomum og Goodum, Helldur og eiñeñ Hardraadum og Hreckvijsum, 1. Pet. 2. Og St. Paull skipar, 1. Tim. 2. Að biðia fyrer Neróne Keysara, sem þo var Gudlaus Maður: Eñ seg mier, Kañ eitt Haf-Skip að fara Leið sijna fyrer utañ Stijre? Eñ þa sijdur kañ Londum og Lijdum vel að gaanga, Þeim er eingeñ stiirer; Hver æ að straffa Synder og Leste? Hver æ að refsa Ogudlegum Skaalkum, þeim er Froomum og Meinlausum veita Yfergaang? Hver æ að dæma æ mille Bloods og Bloods? Hver æ að skipa Riettindum Maña, Svo hver hallde sijnu? Hver æ að giefa oss Log að lifa epter? Hver æ að skicka oss Kieñendur og Predikara, Til að uppfræda

fræda

fræda oß til eilijfs Lijfs? Eñ varna vid Eilijfum Helvijtis Ellde? Hver æ ad vernda oß fræ Hernade og Arææsum Omilldra Maña, ſvo ad vier lifa meigum Hægu og Rooſomu Lijferne med allre Gudrækne og Sidſeme? 1. Tim. 2. Hver æ allt þetta ad giora, Ef þar er eckert Yfervalld? Gud vardveite ſijna Christne fræ Omilldum Konungum, Honum ſieu og Eilijfar Þacker fyrer þa ſtooru Næd, Er hañ hefur oß giefed framar ollum Møñum i Heimenum. Eñ þad þore eg ad ſegla, Betra er illt Yfervalld, Eñ eckert, Þvi hvar ſvo æſtendur, Þar er hvers Hønd i moote ødrum, Þar er hver añars Bødull, Þar er eingeñ Ohultur um̃ Lijf ſitt, Eingeñ um̃ Børn nie Kviñur, Eingeñ um̃ Eigur ſijnar nie Atviñu, Þar er eingeñ Sidſeme, Eingeñ Kiærleike, Eingeñ Guds Otte, J Einu Orde ad ſegia: Þad er hælft Helvijte. Þetta munu þeir Øfgar kalla, er lijda þykiaſt Alogur af Yfervalldenu, Eñ eingeñ veit hvad ætt hefur fyrr eñ miſt hefur: Øllum Møñum i Heimenum hefur þad ad Vege orded, ad taka ſier Høfdingia, Þar ſem Almeñingur hefur teked til ad ſtioorna. Jlla gieck þad til æ Døgum hiña Ogudlegu Jſraels Konunga, Jeroboams, Manaßis, Achabs, Og añarra: Þo var þad eñ þa verr, Þegar eingeñ var Doomare i Jſrael, Og hver eiñ giørde þad riett þotte i hañs Augum, Jud. 17. Þa var valla nockur Guds Þecking i Jſrael; Þa giørdu Benjamintar þa Hædung, Er Sooleñ hefur aungva verre yferſkined, Hveria Sodoma og Gomorra mættu ſkañaſt ſiin vid ad heyra, Þa ſlætrade Guds Foolk ſijnum eigeñ Brædrum og Syſtrum, Heille Ættkvijſl, mørgum Þuſundum Maña; Svo þar var ecke ein Kona epter i Benjamin, Og hvad villum vier længt leita, Vier høfum Epterdæmeñ hiæ oß, Þegar þetta Veſæla Land flaut i ſijnu eigeñ Bloode, ædur eñ Gud gaf oß Konung, ſvo ad eingeñ mætte Ohultur leggiaſt i Reckiu ſijna, Hverſu ægiætlega leid oß þa? Hverſu foor þa fram̃ i Lande voru? Mundu Meñ þa ecke Allshugar fegner verda ad jæta Konunge, Og gænga under hañ, Til ad hallda Lijfe og Limum, Fride og Frelſe? Svo er þvi hættad, Br. M. Fyrer oß Syndugum Møñum, Vier hliootum Lagaña Þrælar ad vera, uppæ þad vier kuñum Frelſe ad hallda. Hver ſem nu yfervegar allt þad Gooda, Er vier hliootum af Valldſtioorneñe, Og under eins allt þad Jlla, Er hun afſtijrer; Hañ munde med betre Samvitſku og fæſare Huga giora Christi Bod; J þvi ad giefa Keyſaranum hvad Keyſarans er. Eñ ef nockrum þyker Valldſtietteñ Refſingaſom, honum kañ eg eckert betra Ræd eñ þad, er giefur St. Paull, Rom. 13. Segiande: Villtu ei Valldſtioornena Ottaſt, Þa gior hvad Gott er, Og muntu Lofſtijr af heñe hafa. Þvi hun er Guds Þienare, Þier til Gooda; Eñ ef þu giører hvad illt er, Þa vert Ottaſlegeñ; Þvi hun er Guds Þienare, Til Hefndar og Reide þeim ſem illa giora: Og er ſvo ætt-talad um̃ hid Fyrra.

Eñ hverſu miked ad vier Gude ſkylldüger ſieum, Þad kañ eingeñ Tunga æt ad ſkijra, Hverke Eingla nie Maña, Og hvi mun þad nockur Muñur fæ ætſagt, Þar ſem ad aller Utvalder, Aller Heilager i Eilijfu Lijfe fæ þad ecke fullgiort um̃ alla Eilijfd? Eilijfa Tijd ſkal til þeß hafa, ad prijſa hina eilijfu Giæſku, Og Oendañlegar Allder, til ad Vegeſama

sama hañs Nafn, sem alldrei Enda tekur. Hversu meigum vier þa jaata med David: O! DRotteñ, Miñe erum vier ollum þijnum Myskunsemdum: Samt hefur þo hin eilijfa Hatign boded ad vier prijsa skylldum hær Daasemder, Er hañ giorer aa medal Mañaña Barna, Ecke fyrer þvi, ad hañ þurfe vorrar Hroosunar vid, Þvi hañ er Gud Blessadur um̃ allar Allder: Helldur ad Ihugan hañs Velgiorninga meige verda oss til Sidboota og Saaluhiaalpar. Vier heyrdum Fyrra Suñudag talad um̃ hiñ Vonda Þioon, Sem var sijnum Herra 10000. Punda skylldugur; Munum vier ecke aller meiga sitia aa Beck med honum, Þegar ad Skullda-Dogunum kiemur? Saal og Lijkama hefur Gud giefed oss, Til hvers? Ecke til ad brwka þad svo sem vier vilium sialfer, Helldur til ad þiona DRottne þar med: Lijkameñ er hiñ Oædre Partur vors Skapnadar, Hañ hefur Guds Giæsska lient oss til ad wtvega Atviñu vora, svo ad vier i Sveita vors Andlitis kuñum vors Brauds ad neyta, Gen. 3. Þo hefur hañ skiled sier Leigu hier af, Þvi St. Paall segier: Vited þier ecke, ad ydar Limer eru Mustere Heilags Anda sem i ydur er, Hvern þier hafed af Gude, og þier erud ecke sialfs ydar Meñ: Hendurnar hefur hañ lient oss til ad brioota Voludum vort Braud, Fæturnar til ad gaanga fwslega i Guds Hws, Augun til ad upplypta þeim til Himens, Hvadañ oss kiemur Hiaalpeñ, Eyruñ til ad heyra Guds Ord, og vardveita þau, Twnguna til ad lofa hañs Nafn; Eñ i ollu þessu hofum vier resiast vid hiñ Almaattuga, Þad hefur geinged Andhælis fyrer oss, Vier hofum lied vora Limu Syndeñe til Ibwdar, og laated hana drottna i vorum Daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þar vier aattum ad liaa þar Riettlætenu til Verkfæra. Margur wtrietter Hendurnar til Raans og Þioofnadar, Til ad meida Holld sijns Naunga, og ad hefna sialfur sijn, Eñ stela Hefndeñe fraa Gude; Svo laangt er fraa þvi, ad Meñ giefe Gude hvad Guds er, Fæturner eru næsta fimer, til ad hlaupa aa hiñ breida Veg, Auguñ eru Skaalkur, Svo ad allur Lijkameñ verde Skaalkur, Grañskign til ad siaa Kvistiñ i sijns Broodurs Auga, Eñ ad Biaalkanum i sialfum sier giæta þau ecke, Eyrun klæia epter þvi er þau heyra vilia, og eru opeñ vid Bulldre Veralldar þessarar, svo ad Guds Ord faa ecke Rwm i þeim, Twngañ temur sier skam̃arleg Ord og Fiflsleat Hial, Sem Christnum hæfer ecke, Roog, Lijge, Bakmælge, og añad þvi um̃ lijkt. Æ! oss Auma Meñ, Hversu illa hofum vier þa Gude goldded hañs Hwsa-Leigu? Vited þier ecke, ad þier erud Kyrkia Guds? Segier Postuleñ: Eñ hañ sem Guds Kyrkiu skiem̃er, Þañ vill Gud skiem̃a, segier hañ, 1. Cor. 3. Eñ hvernig hofum vier væktad Guds Hws, Brædur mijner? Þad aatte ad vera Bæna-Hws, Eñ vier hofum giort þad ad Ræningia Bæle. Eñ ef Gud krefur sier nu þvilijkañ Skatt af Lijkomum vorum; Mun hañ þa laata Saalena bwa Oleigis? Aungvañ Veigeñ, Peningureñ er Judar sijndu DRottne, hañ var goldden fyrer Hofud hvert i ollu Roma Rijke, Þar fyrer gallt og JEsus Skatteñ fyrer sig og Petur, er hañ spurde hañ ad, Hvert Veralldleger Konungar tæki Skatt af sijnum eigeñ, Edur af Añarlegum? Matth. 17. Þar hañ aatte þo ecke Skott ad gialda, Þvi hañ var ecke einasta

Kongboreñ, helldur Konungur ad Eglijsu; Svo ær og sierhver Eiñ af oss fyrer Sæ-lu ad siaa, Hun bijr i Leigu-Hwse, Hun ær ecke einasta epter þad ad giallda, helldur og fyrer siaalfa sig: Eñ hvad eigum vier þa ad giallda, Edur hver er Skattur hiñs Allra Hæsta? Pad giorer hañ siaalfur bert, Ps. 50. Ecke et eg Kiot hiña sterku Uxaña, og ecke dreck eg Blood Hafraña, Offra DRottne Lofgiordeñe, og lwk hinum Allra Hæsta þijn Heit. Hver er sw Lofgiord, Er Gud af oss heimter? Er þad noog ad kasta uppaa hañ Kvediu siñe, med einu Psalm-Verse? Fiærre sie þvi, Pad heiter ad naalæg-iast hañ med Vorunum, Eñ Hiartad er langt þar fraa. Gud verdur ecke med Mæl-ge prijsadur þeirre er Heidingiar brwka, og meina sig fyrer hana ad Bænheyrast, Matth. 6. Helldur svo sem David, Par hañ segier: Lof seig þu DRottne Ond mijn, og allt hvad i mier er hañs blessada Nafne. Ef vier vilium Gud aakalla i Anda og Sañ-leika, Pa skal Syndareñ koma hræddur og skiaalfande fram fyrer hiñ Heilaga i Jsrael, Hañ skal yfervega hañs Heilagleik, og siñ Overdugleik: Mergd siña Synda, og Fiolda hañs Myskunsemda: Guds Poleñmæde, og sitt Toomlæte: Guds breñande Elsku til sijn, og sijna Eymd og Olucku, Sem ecke gietur i Lijkama þessa Dauda elskad hañ af ollu Hiarta, og ollum Kroptum, Er oss svo heitt elskade: Og þegar hañs Hiarta er af slijk-re Hugraun braadnad i honum sem añad Vax, Pa skal hañ hroopa af Diwpenu til DRotteñs, Eins og David: Mijnar Synder eru mier yfer Hofud geingnar, Pær eru vordnar mier mikels til Ofþwng Byrde, Og med Tollheimtu-Mañenum, Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur; Eñ er þu svo giorer, Pa mun Andeñ bidia fyrer þier, med Oumrædelegum Andvorpunum: Eñ hañ ed Hiortun Rañsakar, veit hver ad er Ands-ans Meining, Pvi hañ er epter Gude Medalgaangare fyrer Heilaga, Rom. 8. Og er Gud svarar þier i Leyndum Hiarta þijns fyrer Heilagañ Anda, saa ed ber þijnum Anda Vitne um, ad þu siert Guds Barn, Segiande: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar: Pa Offra Gude Lofgiordeñe, Og seg med JEsu Mood-ur: Mijn Ond miklar DRotteñ og miñ Ande gladdest i Gude Heilsugiafara mijnum. Pesser eru Kaalfar Vara vorra, Er vier eigum Gude ad foornfæra, Os. 14. Pad er þad Offred sem fyrer honum gyllder, Pvi Harmþrwngeñ og Sundurknosadañ Anda mun hañ ecke fyrerlijta, Ps. 51. Hver eru þau Heiteñ, Er vier eigum honum ad lwka? Pad eru þau er vier hietum honum i Skijrneñe, Pegar hañs Eingieteñ Sonur, Hiñ Frijdaste medal Mañaña Barna, Trwlofade oss sier i Raad og Myskunseme; Hver voru þau, þad vier jaatudum Gude Helga Trw, uppaa hveria vier skijrder vorum, Eñ afneitudum Fiandanum og ollu hañs Athæfe? Hver er þa Heilog Trw? Ecke sw alleina sem þecker Gud ad vera, Hvad eiñig giora Dioflarner, og skielfast þar af, Jac. 2. Helldur hun, sem ad verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Hver ad er Poleñmoodur og goodgiarn, Ecke Ofundsiwkur, giorer eckert Jllmañlega, Ecke blæs hañ sig upp, Er ecke Osidsamur, Hañ leitar ei epter þvi sem hañs er, Ei þwnglyndur, Hañ þeynker ei Jllt, hañ fagnar ecke yfer Raanglætenu, eñ samfagnar Sañleikanum, Hañ umber allt, Hañ trw-

er

er ollu, Hañ vonar allt, Hañ þoler allt, 1. Cor. 13. Pad er sw Trw, Er vier jaatudum Gude i Skijrneñe, Er slijka Avexte af sier giefur, Hverier sijdur meiga vid hana skilia, eñ Byrtañ vid Soolena. Eñ hvert er þa Andskotans Athæfe er vier neitudum? Pad eru Holldsins Verk, Sem Paulus upptelur, Gal. 5. Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda-Dijrkun, Fiolkijnge, Fiandskapur, Prætur, Kapp, Neide, Praattaner, Sundur-Pyckia, Flockadraattur, og añad þeim lijkt: Petta eigum vier ad laata, Eñ hitt ad giora, Ef vier vilium giefa þad Gude sem Guds er, Pvi svo segier DRotteñ fyrer Muñ Esajæ, Cap. 1. Pvoed ydur, Hreinsed ydur, Taked ydar Illskubreitne fraa mijnu Auglite, Laated af Illu, eñ læred Gott ad giora, Komed sijdañ og eigunst Log vid; Po ad ydar Synder sieu raudar sem Blood, Pa skulu þær verda hvijtar sem Snioor, Og þo þær sieu sem Purpure raudar, þa skulu þær verda hvijtar sem Ull. Peir sem eru skyllder under nockurn Konung, þeim byriar ecke Einungis ad greida honum Skatta og Skylldur, Helldur og ad strijda aa moote hañs Ovinum: Nu er eingeñ þvilijkur Guds Ovinur sem Diofulleñ, þvi Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2. Cor. 6. Nu fyrst vier erum geingner Gude til Handa, Pvi skylldum vier þa draga eitt Ok med Satan? Andskotans Taum dregur Hollded, Eñ Guds Lide stijrer Andeñ; Laatum oss i honum gaanga, svo munum vier ei fremia Holldsins Gyrnd er, Og J klædunst Guds Herskrwda, svo ad vier gietum mootstaded Prettum Diofulsins, Eph. 6. Pa erum vier rietter Guds Pegnar. Eñ JEsus Christus saa ed Hoggormsins Hofud hefur i sundur mared, og nidurbroted Helvijtaña Port, Hañ virdest ad troda Diofuleñ under Fætur vora; Eñ giefe oss ad beriast goodre Baraattu, behallda Trwñe og goodre Samvitsku, þar til oss uñ sijder verdur assijdes logd Corona Riettlætesins, Sem DRotteñ Gud virdest ad giefa oss aa þeim Degie, þegar vier eigum ad giallda þa Sijdurstu Skulld, Og afhenda þad Gude hvad Guds er, Sem er Saal og Lijf, Hvert vier hofum ad Laane, Og ecke ad Eign þeiged.

Pad Bænheyre Fader Myskunsemdaña, Fyrer Son siñ JESUM CHristum, AMEN.

## Tuttugasta og Fioorda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

Y Pañ Tijma. Pa ed JEsus talade þetta til þeirra: Siaa þu, Ad Hofdinge nockur gieck ad, Og tilbad hañ, Segiande: Mijn Dootter er ny-saalud, Eñ þu kom og legg þijna Hond yfer hana, Og mun hun lifa. Og JEsus stood upp, Og fylgde honum, Og so hañs Læresveinar. Og siaa þu, ad Kona, Hvor ed hañ hafde Bloodfall i Toolf Ar, gieck aa Bak til vid hañ, Og snerte Falld hañs Klædnadar. Pvi hun sagde med sialfre sier: Ef ad eg mætte ad eins

Synduga, Og ecke Riettlæta til Yðrunar, Þier sie Lof, Æra, Makt og Dijrd, ad Eilijfu, Amen.

J Muñe Tveggia edur Þriggia skulu øll Ord standa, Sagde DRotteñ i Løg-Book siñe Fordum: Eñ um̃ þetta Þijng mæ eg segia þad, Er Johañes segier i hañs Fyrsta Pistils Fim̃ta Capitula. Þrijr eru þeir sem vitna æ Himne, Og Þrijr eru þeir sem vitna æ Jørdu. Hier eru Þrijr Vottar Jardnesker, Og adrer Þrijr Himnesker. Eg vil tala fyrst um̃ þa Jardnesku, Þvi Texteñ gietur fyrr um̃ þa. Þad voru Petrus, Jacobus og Johañes, Þesser voru einger Smælingiar i Guds Hwse, Jafnvel þott þeir være halldner Afrak og Hreinsunar-Foorn hiæ Verollðeñe. Petur var sæ ed fyrstur allra Postulaña þeckte, ad JEsus være Christur Sonur Guds Lifanda, Matth. 16. Hañ var sæ ed DRotteñ fyrstum afhendte Lykla Himnarijkis, til ad Leysa og Binda, ecke þad, ad Petur afhendte þa hinum Postulunum wt af sier, Helldur giørde DRotteñ þad sialfur sijdañ: Hañ lagde Lijfed ofañ æ sijna Medkieñingu um̃ JEsum, Þvi Jafnvel þott ecke hafe Meñ svo vissar Søgur um̃ hañs Lijflæt, Þa kieñer Johañes oss þad, ad Lausnareñ hafe spæd honum þvi; Ad hañ munde Gud med sijnum Dauda Dijrka. Jacob var sæ, Er fyrstur allra af þeim Tools liet Lijf sitt fyrer Vitnisburdeñ JEsu, Og underskrifade hañ med sijnu Saklausa Bloode. Johañes var sæ, Ed læ fyrer framañ DRotteñ um̃ Kvølldmæltijdena, Honum auglijste hañ Svikarañ, Hañ er sæ Lærisveiñ, um̃ hvern skrifad stendur, ad JEsus hafe hañ Elskad; Hañ hefur og Greinelegast af øllum Gudspiallamoñunum talad um̃ Persoonu Frelsarans, Honum Auglijste DRotteñ þa miklu Hlute, er skie skylldu æ epterfylgiande Tijmum; Svo sem liooſt er af hañs Openberunum: Hañ lifde og leingst allra Postulaña, til ad mootstanda þeim Ebioni og Cerintho, Er neitudu Guddoome vors Frelsara. Og þess vegna er þad af Gudlegre Forsioon skied, ad hañ feinge hañs Hærtign Augum ad lijta i þessum Stad, Svo hañ þess betur kyñe þar um̃ ad vitna. Mooder þeirra Jacobs og hañs beidde Frelsarañ um̃, ad Añar Sona siña mætte sitia honum æ hægra Veg, eñ Añar æ vinstre, DRotteñ svarade heñe; Þier vited ei hvers þier bidied: Eñ þo sijnest mier, ad hañ Blessadur hafe ad nockru Leite orded vid Boon heñar i þessum Stad, Þar hañ took þæ framar ødrum med Petre, til ad sijna þeim svo sem Aleingdar iñ i þa Dijrd, sem hañ æ hiæ sijnum Himneska Fødur. Eñ af þessare Veglegu Sioon hafa þesser Guds Meñ lært, Þar þeir valla gætu stadest hana, ad ei munde þeim hendt i þessu Daudlega Hollde ad sitia honum æ Hægre edur Vinstre Hlid i Dijrd Himnaña, Og þvi sporudu þeir ecke sijna Daudlega Lijkame sijdañ fyrer hañs Skulld, þegar þeir vaxner voru epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, svo þeir med Paulo, Phil. 3. næ kyñu i Upprisu hiña Daudu, Hnossenu þeirrar Køllunar, sem þar uppe er i JEsu Christo. Eñ vier sem nu heyrt høfum Vitne þeirra um̃ Forklaaran DRotteñs, Og vitum ad þeir iñgeingner eru i Dijrd sijns HErra; Vier skulum leggia allañ Hug æ, ad vera eins hyder og þeir, ad vier holldum alla Hlute Þreck ad vera, Og jafnvel sialft Lijfed,

Svo vier ávinnum Christum, Phil. 3 Þvi hver sem ad hatar Saalu sijna i þessum Heime, hann mun vardveita hana til eilijfs Lijfs, Joh. 12. Og þesser eru nu hiner Jardnesku Vottar ad Stoormerke þessu, Sem teked hafa vid Vitne þeirra Himnesku: Umm hverja eg hefe hier epter nockud ad tala.

DRottenn sagde Fordum under sijna Pijnu, Joh. 12. Fader, Vegsama þitt Nafn, og Raustenn af Himne svarade honum: Eg hefe Vegsamad, og eg skal aptur Vegsama, Þa sagde hann vid Læresveinana: Þesse Raust skiede ecke vegna mijn, helldur ydar vegna. Svo maa eg og segia umm þaa Himnesku Votta, sem Textenn ummgietur, Ad ei byrtust þeir DRottne fyrer hanns Skulld, helldur þeirra sem med honum voru, Jaa, vegna allra þeirra, sem epter þeim heyra mundu þenna Tilburd. Vottarner eru Þrijr af Himnum, Moyses, Elias, og sialfs Fodursins Raust, Er vitnade af Skijenu. Moyses var einn trwr Raads-Madur i ollu Guds Hwse, Hann valde Gud til ad wtleida sitt Foolk af Egyptalande, Hann talade vid Gud i Horeb, Þegar Israel villde hafa sig undann þeigenn ad heyra Raustena DRottenns Guds sijns, Hann medtook Logmaaled af hanns Hende, og talade vid hann Optlega eins og Madur vid Mann talar. Hvert Moyses hafe vered hier med Saal og Lijkama, skal eg ecke margt umm tala, Þad er vijst, ad hann Doo aa Fiollunum Habarim, Hvadann Gud sijnde honum Landed Canaan, Og Gud groof hann i Dalnum, segier Ritningenn, Devt. 34. Þo er Lijklegt, ad Moyses hafe hier allur vered, Þvi umm Eliam er þad vijst, ad hann foor med Ond og Lijkama til Himens, Enn eingann Mun gioerer Matthæus edur hiner Gudspiallamennerner þeirra i sijnu Rite umm þessa Opennberan. Nockrer færa til ad styrkla þessa Meiningu, Þad sem stendur i Judas Pistle, v. 9. Ad Michael Hofud-Eingell hafe þraattad vid Satan umm Lijkama Moysis, Svo sem ad villde Andskotenn hafa feinged Valld hanns, Enn Gud hafe hann uppnumed, Og ad vijsu lijtur Petur til þeirrar Sogu, Er þar skrifud stendur, J sijns Sijdara Pistils Odrum Capitula. Enn hvornenn sem þessu er vared, Þa veit eg, ad hann sem uppvakte Son Ekkiunnar af Sarepta, Og hinnar Sunamitisku, Hann sem Lazarum leidde wt af Grofenne, Hann sem uppreiste Doottur Jairi, Hann sem liet marga Framlidna gaanga wr Grofunum i Christi Upprisu, Honum var ecke umm Megn, ad laata Moysen koma til þessarar Haatijdar aa Fiallenu Helga med Ond og Lijkama, Og þesse var nu Hinn Annar Himneskra Votta af Monnum. Enn hinn var ad sijnu Leite eingu minne, Elias, Hver med ollum Riette maa nefnast hinn Ypparste af Spaamonnunum, Hann var hinn meste Vandlætare vegna Guds Nafns, Hann liet slaatra Jessabels Spaamonnum vid Lækenn Kischon, Honum sende Gud Elld af Himne yfer þaa Tvenna Fimtiju Achabs Sende-Menn, Hann fieck med Bæn af Gude Dogg af Himnenum, Þa ecke hafde rignt i heil Þriw Ar, Hann foor med Elldlegum Hestum og Vognum til Himna, Hann talade vid Gud aa Fiallenu Horeb, Eins og Moyses, Og baader fostudu þeir 140. Daga og 40. Nætur, Eins og Christur i Eydemorkenne, Beggia þeirra gietur og Malachias i Þridia Capitula

 sijnar

siñar Maala Bookar, under eins og hañ Endar hid Gamla Testament. Sliika Votta byriade Guds Syne ad hafa til Diirdar siñar, Er hañ Forklaaradest; Og skulum vier vita, ad Gud giorer eckert Forgiefens, Auk helldur svo mikla Hlute, sem þesse var, Oll var og Þorf aa þvi; Sw Tijd var nærre komeñ, ad Gud munde slaa Hyrdereñ, og ad Sauder Hiardareñar mundu sundur tvistrast; Eñ hversu ad Læresveinarner hafe vered bwner under þa Ogn, Þad sijna oss Gudspiallz Sogurnar. Ad Soñu hafde Petur lijst þvi skoñu aadur, Matth. 16. Ad JEsus være Christur Sonur Guds Lifanda, Og kallade Frelsareñ hañ sælañ þar fyrer; Þvi Holld og Blood hefde henum þad ecke Opeñberad, helldur Ande sijns Fodurs; Eñ þo took Holldid svo ad Raada skoñu þar epter, Er JEsus talade um sijna Pijnu, ad Petur aatalde hañ, og sagde: Spara sialfañ þig ad ei verde þier þetta; Jaa, Þegar hañ heyrt hafde, ad Moyses og Elias toludu vid DRotteñ um hañs Sijdurstu Utfor fraa Jerusalem, Þa var þo Einfelldneñ svo rijk i Holldenu, ad hañ sagde: Vier Vilium Giora Hier Priaar Tialld-Bwder: Þier Eina, Moysi Eina, Og Eliæ Eina, Og þoott hañ hefde Maal fyrer hinum Postulunum, Þa er audvitad, ad þeir hafa eins Faakiæner vered. Hier maa nu segia þad sama um þeña Guds Ast-Vin, sem Paulus um sig segier: Þegar eg var Barn, Giorda eg sem Barn, Og eg talade sem Barn: Petur var eñ nu ecke fullvaxeñ i Christeñdoomenum, Og þvi talade hañ Bernskega. O! þu Guds Madur, Munde hañ nockud þurfa Tialld-Bwdar vid, Hvers Asiaana ad skein sem Sool, Og hañs Klæde voru biort eins og Lioos? Munde hañ ætla sier ad eiga laanga Dvol aa þessu Fialle, Sem aadur sagt hafde: Ad hañ munde Lijflaateñ verda i Jerusalem, Hvad þu og heyrder, Guds Vinur, af þessum Tveimur Himnesku Vottum? Var þesse Opeñberan til þess gior, ad hun skyllde leinge vara, og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hiñar eilijfu Diirdar? Þvi skyllde Moysi og Eliæ giora Tialldbwd, Eins og ad ei være i JEsu einum Sælañ full? Riett hafa þeir nu Marcus og Lucas, skrifad um þetta Faafræde Peturs, ad hañ hafe ecke vitad hvad hañ sagde, Kañskie þvi, ad Felmtur var yfer þaa komeñ: Eñ i þvi maa marka Elsku þa og Traust, er hañ hafde aa DRottne, ad hañ giorer ei Raad fyrer neiñe Tialld-Bwd handa sier edur sijnum Lags-Moñum, Þvi hañ hefur vered Fulltrwa þar um, ad þar sem hañs HErra være, Þar mundu og þeir verda. Svo skulum vier og Lynder vera, Christner Meñ, Þegar vier erum visser um Christs Vinaattu, Þa verum ecke Hugsiwker fyrer Lijfe þessu. Hvar kuñum vier svo ad vera hia JEsu, ad oss illa lijde? Hvar meigum vier svo vera fyrer utañ hañ, ad oss vel lijde? Vorpum þvi allre vorre Ahyggiu uppaa DRotteñ hañ mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veikleike Peturs og hiña Læresveinaña; Eñ til þess ad bwa þaa under hina miklu Freisting, Sem aa epter fylgde; Þa skiede nu þesse Diirdlega Jardteikn, Og þoott þeim fiellest miog svo Hugur, Þegar i Raunernar rak, Þa er þad vijst, ad þeir hefdu miklu midur hast sig, hefde þeir aan heñar vered.

Þesser

Þesser voru þeir Þrijr Læresveinar er JEsus took Assijdes med sier, aa þeirre Naatt er han Foiraaden var, Þegar Kvølen hoosst. Gud naade oss Auma og Synduga: Vier gietum hverke þolad Heitt nie Kallt med JEsu; Þessa Dijrdlegu Syn aattu þeir valla stadest, En i Kvølene svaafu þeir, Þa yfergaafu þeir han aller: En Þacker sieu þier, hin Guddoomlega Speke, Þu kant ad midla fyrer oss bæde Medlæte og Mootlæte, epter þvi sem þu veitst ad med Manenum bijr: J þine Dijrdlegu Forklaaran lietstu þijna Postula siaa þijna Dijrd, Ad svo miklu Leite, sem þeirra Daudleg Augu gaatu þolad, En i Kvølene leysder þu þeim ad sofa um Hrijd; Þu gafst þeim og Fararleyfe þegar Hoopur Mana var yfer þig komen, Svo þad maa jaata, DRotten min, ad þu ert Ein Biskup Frelstadur aa allan Haatt lijka sem vier, Þo aan Syndar; Þar fyrer kantu ad Sampijnast Eymdum vorum.

Adur en eg skilst vid þetta Maal, Þa vil eg þar um tala, ad Postularner þecktu þaa Moysen og Eliam, Er þeir alldrei hofdu þo aadur sied: Lijkleg er þeirra Gaata, Er meina, ad af Samtalenu hafe þeir maatt þeckia þaa: En hverke Moyses nie Elias hofdu Greinuglegar spaad um DRottens Pijsler, helldur en David og hiner Spaamenerner, Sierdeilis Esajas, Nema han hafe þaa vid Nafn kallad, Hvar um eckert er skrifad, Þvi helld eg þad lijklegra, og nærre þvi fyrer satt, ad Guds Ande hafe þeim þad Openberad i þad Sin, Þvi han sem liet Samuel þeckia Saul Konung, aadur en han hafde han sied, Sem liet Johanem þeckia sin HErra i Moodurlijfe, Han gat og Audvelldlega giefed Christi Læresveinum þessa Þeckingu aa Moyse og Elia, Og er þad ecke lijtil Huggun fyrer Christna Men, Ad hver Ein mun þeckia ecke Einasta sijna Ast-Vine, i þeirre Himnesku Glede, helldur og alla Utvalda, Sem hafa yferuned fyrer Lambsins Blood, fraa þeim Fyrsta til þess Sijdarsta, sem inngeingur i Fognud sijns HErra, og med þeim Eilijflega glediast, og Gude Lof sijngia aa þessu Fagnadarens Lande, Og er nu þetta sagt um Moysis og Eliæ Vitne, sem voru fraa Himnum. En hier kiemur ein ollum meire, sem uppfyller bæde Himen og Jord, Þad er Fader DRottens vors JEsu Christi, sem hier vitnar, Þesse Er SOnur Min Elskulegur, HOnum SKulud Þier HEyra. Riett er Gaata Hieronymi Lærefodur, ad mine Hyggiu, Er han skrifar ad Moyses og Elias hafe þess vegna vered sveipader i Skije þvi hinu biarta, aadur en Rausten kvad vid, ad ei skylldu Postularner meina, Ad annarhver af þeim være saa, Er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu, Þa saau þeir eingan nema JEsum: Þeir saau han alleina, J hverium alleina er Saaluhiaalpen: Þeir saau han alleina, Sem er hin einaste Medalgaangare mille Guds og Mana: En hvilijkur er nu Vitnisburduren? ÞEsse Er Min ELSKUlegur SONur. JEsus stood hier i sijnum fullum Mandoome, fullum af Guddoomenum, Og þo segier Faderen: ÞEss Er Min Elskulegur SOnur, Hvar af audsært er, ad Christur er Guds Sonur Bæde epter Gutdoomenum og Mandoomenum. Min Frelsare, Þeir kolludu þig Tymburmansins Son, Þin Fader segier: ÞEsse Er Min Elskulegur SOnur.

ur. Þeir ſogdu ad þu giorder þig ad Gude, Af þvi þu kallader Gud þiñ Fodur, Eñ Gud ſegier hier: Þeſſe Er Miñ Elſkulegur SOnur: Þeir ſogdu: Vier vilium ecke lata þeña drottna yfer oſs, Eñ DRotteñ allra Drottna, Þiñ Fader, Er þeir kolludu ſiñ Gud, Eñ þecktu hañ þo ecke, Hañ ſegier: Þeſſe Er Miñ Elſkulegur Sonur, Honum Skulud Þier Heyra. Moyſes hafde adur fyrer ſagt, Devt. 18. Spamañ mun DRotteñ uppvekia ydur af Brædrum ydar, Honum ſkulud þier heyra: Eñ ſa hiñ ſame kom til ſiñar Eignar, og hañs eigeñ þecktu hañ ecke. Moyſes lærde og ſialfur meira hier, Helldur eñ hañ ſialfur hafde fyrerſpad: Ad ſoñu vijſade hañ til hañs i greindum Spadoome, Eñ hier ſa hañ þad, Sem bæde hañ og marger Spameñ gyrntuſt ad ſia, Og ſau þad ecke. Abraham ſa hañs Dag ad ſoñu, Eñ ei ſa hañ DRotteñ voru Hollde Iklæddañ, Eins og Moyſes i þeſſum Stad. Allra Sijdarſt vil eg giæta þeſs Myſkunar-Verks, Er DRotteñ giorde a Læreſveinunum, Er þeim var lided i Briooſt af þeſſare Dijrdar-Sioon, ad hañ gieck ad þeim, Og ſnart þa, Og ſagde: STanded Upp Og Vered Ohrædder. Hañ ſem alvanur var Dijrdiñe, og þo i Mañlegu Hollde Opeñberadur, Hañ kuñe beſt ad vægia Holldſins Veikleika: Þad ſijner hañs Mañdoom, ad hañ Snart þa, Þad auglijſer hañs Guddoom, ad hañ reiſte þa a Fætur med þeſſu Atvike. Miñ HERRA JESU, Eg veit ad þu ert ei ſijdur Mattugur nu eñ þa, Og eckert Mañgreinar Alit er hia þier: Svo þegar vier follum i Andleg Omeige, Og hofum eingañ Matt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndaña, Þa gietur þu Snorted oſs, Og reiſt oſs a Fætur aptur, Ja, DRotteñ, þegar hid Sijdarſta Aungvited lijdur yfer oſs i Daudanum, Snert oſs þa miñ Frelſare, Og ſeig til Salar vorrar: Statt upp og vert Ohrædd, Og leid oſs ſvo iñ i
þijna Dijrd, Þar er oſs Gott ad vera, Þar vilium vier Eilijflega med
þier bwa, Þier, Fodurnum og Heilogum Anda O-
Endañlegt Lof ſijngia, um Allder Allda, Amen.

## ERRATA.

PAg. 17. Lin. 22. Krapaverkenu, les Kraptaverkenu. P. 45. L. 9. þaſe, l. haſe. P. 132. L. 28. ſyrſiur, l. fyrſtur. P. 140. L. 16. aſ, l. af. P. 141. L. 25. haſe, l. haſe. P. 183. L. 6. ſleitefulla, l. fleitefulla. P. 276. L. 32. hu, l. þu. P. 281. L. 11. ſiiærare, l. ſkiærare. P. 298. L. 33. ſvo, l. ſvo. P. 314. L. 14. viled, l. vilied. P. 363. L. 4. þier, l. þeir. P. 386. L. 6. 7. þeſſ-ſare, l. þeſſare. P. 399. L. 9. Fodrufins, l. Fodurſins. P. 452. L. 21. ſyrer, l. fyrer. P. 455. L. 35. Heimenum, l. Himnenum. P. 459. L. 9. ſijnu, l. ſijnum. P. 536. L. 18. Faklaus, l. Saklaus. P. 612. L. 8. hegar, l. þegar. P. 631. L. 7. ſvo, l. ſvo. P. 638. L. 12. Herbræ-vs, l. Hebræos. P. 658. L. 22. er, l. eñ. Ibid. L. 33. Nadeñe, l. Nadeñe.

Kuñe fleire Bookſtafa-Villur ad fiñaſt i þeſſare Book, Er Goodfus Leſare umbedeñ ad Lagfæra, Og leſa i Maled.

* * *